langt fram úr öldum; arfur, er við ávöxtum í lífi okkar og breytni, eins og við erum menn til, hver og einn, og sem líf okkar og breytni eru ávöxtur af.

Við erum bundin þessu landi, eins og rímið ljóðinu. Hvað það snertir erum við undir álögum, sem ekki verður hrundið. **Það er enginn sá Íslendingur fæddur, er sér að skaðlausu geti slitið bönd við land og þjóð.**" (Leturbr. ræðumanns).

Þessi snjöllu og spöku orð hins mikilhæfa skálds, sem sjálfur hefir dvalið langvistum erlendis, tala kröftuglega til vor Íslendinga hérna megin hafsins. Niðurlagsorð ummæla hans eiga vitanlega alveg eins við um varðveislu íslenskra menningarerfða og um að slitna ekki úr tengslum við land vort og þjóð, því að í rauninni er þar um eitt og hið sama að ræða.

Að þessu sinni skal þó aðeins í stuttu máli vikið að nokkrum meginþáttum í hugsjóna-arfleifð vorri. Verður þar ofarlega á baugi drengskapar-hugsjónin. Bergþóra var "drengr góðr," segir í *Njáls sögu*, og hafa þau orð frá því í fornöld og fram á þennan dag verið mikið hrós í munni sögufróðra og sannleiks elskandi Íslendinga. Því að í þeirri lýsingu felst það, að hver, sem þann vitnisburð hlýtur, hafi verið heilsteyptur að skapgerð og fastlyndur, hreinn og heillundaður. Að fornu fari hefir orðið "drengr" og "drengskapur" jafnvel ennþá dýpri merkingu. "Drengir heita vaskir menn og batnandi," segir Snorri Sturluson, en það eru með öðrum orðum þeir menn, sem sameina hreysti og hugprýði og vaxandi sálargöfgi. Því segir dr. Guðmundur Finnbogason, að í orðinu "drengr" felist meira að æðstu siðgæðishugsjón forfeðra vorra en í nokkru öðru einu orði. Hann bætir við: "Drengskapurinn fæst með því að beita vaskleikanum þannig, að maður batni við — vinna þau verk, sem göfga mann." (*Íslendingar* bls. 61). Drengskaparhugsjón norrænna manna og íslenskra er því snar þáttur í hugsjónaarfleifð vorri, sem sæmir að leggja rækt við og halda á lofti, yngri kynslóð vorri til fyrirmyndar.

Og þar speglast einnig manndóms-hugsjón forfeðra vorra, sem ritið er stóru letri í "Hávamálum." Höfundur þeirra, hver sem hann var, og vér getum skoðað hann sem túlk og málsvara norrænnar lífsspeki, leggur megináhersluna á manngildið; það verður einkar augljóst, þegar í **minni er borið, hversu smáum augum hann** lítur á auðinn einan saman. Höfundur þessarar fornu spekimála vorra metur mennina eingöngu eftir manndómi þeirra, en ekki eftir eign þeirra í löndum eða lausum aurum.

Þessi manndómslund hefir verið og er enn höfuðeinkenni hinna bestu Íslendinga og varpar ljóma á líf þeirra og starf. Þessvegna hefir með sanni mátt segja um margan alþýðumanninn og marga alþýðukonuna í hópi þeirra, beggja megin hafsins, það, sem sænskur hirðmaður kvað hafa sagt um Óskar II. Svíakonung, að hann væri kotungsættar, en sérhver þumlungur í honum úr öðlingsefni. Slíkum sonum og dætrum Íslands orti Stephan G. Stephansson hæf eftirmæli, þegar hann kveður þannig um Helga Stefánsson í "Helga-erfi":

"Engan hóf á efstu skör
yfirborðið glæsta.
Varpar tign á kotungs kjör
konungslundin stærsta."

Ekki hefir heldur enn sem komið er sannari mælikvarði verið fundinn á manngildið, heldur en sú manndóms-hugsjón, sem skáld vor frá því á tíð hins nafnlausa höfundar "Hávamála" og fram á vora daga, hafa fært í hinn eftirminnilegasta búning stuðlaðs máls, og verið getur oss hinum til áminningar og vakningar.

En frá manndómshugsjón forfeðra vorra og hinna mætustu niðja þeirra er stutt spor til sjálfstæðis-hugsjónar þeirra. Það er engin tilviljun, að "Hávamál" skipa manngildinu slíkt öndvegi og raun ber vitni. Það er í fullu samræmi við einstaklingshyggju norrænna manna, sem blasir hvarvetna við sjónum í fornsögum vorum. Þeim var ant um, að menn stæðu á eigin fótum andlega, skoðanalega eigi síður en stjórnarfarslega. "Sjálfr leið sjálfan þik," stendur í einu Eddukvæðanna, og lýsir sér þar sjálfstæðis-hugsjón forfeðra vorra. Þeim var það fyllilega ljóst, að menn verða að vera frjálsir orða sinna og athafna, eigi þeir að þroskast til fullnustu. Þessvegna töldu þeir einstaklingsfrelsið hið dýrmætasta hnoss og voru reiðubúnir til að leggja mikið í sölurnar fyrir það, jafnvel lífið sjálft, ef því var að skifta. Er óþarft að minna á það á þessum stað, að landnám Íslands átti beinlínis rætur sínar að rekja til hinnar ríku og djúpstæðu frelsisástar forfeðra vorra. En því minnist eg þeirrar alkunnu staðreyndar, að oss Ís-

lendingum verður eigi ósjaldan tíðrætt um það, að vér séum, eins og laukrétt er sögulega, afkomendur þeirra manna, sem nefndir hafa verið "frumherjar frelsis." Það er gott til frásagnar, ef það er rétt skilið og rétt með farið. En holt er að minnast þeirra orða Henriks Ibsen, að "það gefur ei dvergnum gildi manns, þó Golíat sé afi hans"; menn vaxa ekki um þumlung af því einu sér að miklast af frægð feðra sinna. En frægðarorð fornra dáða hefir hinsvegar, orðið og getur orðið kynslóðum og einstaklingum hvatning til nýrra afreksverka, uppspretta andlegrar yngingar; í því liggur gildi varðveislu sögu liðinna alda, vorra fornu feðra, og það skildi Ibsen einnig fyllilega, því að hann sagði: "Framtíð vex af frægðarsögum."

Þá fyrst er hin norræna sjálfstæðis-hugsjón vakandi hjá oss, ef meðvitundin um það, að vér erum afkomendur "frumherja frelsis" er oss eggjan til frjósamra dáða í þágu frelsis og mannréttinda. Og í hinni miklu baráttu, sem nú er háð milli lýðræðisstefnunnar annarsvegar og einræðis og ofbeldis hinsvegar sæmir oss Íslendingum það eitt að skipa oss eindregið í sveit þeirra, sem eru forvígismenn lýðræðisins, enda þótt það kosti fórnir af vorri hálfu. Það er að sýna trúmensku við norrænar og íslenskar drengskapar-, manndóms og sjálfstæðis-hugsjónir; en eins og skáldið Jón Magnússon segir réttilega:

"Sú þjóð, sem tignar trúmenskuna í verki,
hún tendrar eilíf blys á sinni gröf."



Skal þá rent augum yfir störf félagsins og hag á árinu. Verður þá fyrst fyrir að minnast þeirra félagssystkina, sem horfið hafa úr hópnum, en þau eru þessi, eftir þeim upplýsingum, sem fjármálaritari Guðmann Levy hefir góðfúslega látið mér í té: Halldór Halldórsson, Sherwood, N. Dak.; Hjálmur Þorsteinsson, Gimli; Gísli Jónsson, Winnipeg; Jón Guðmundsson, Gimli; Sigtryggur Ólafsson, Winnipeg; Sigurður Vilhjálmsson, Winnipeg; Stefán Brandson, Winnipeg; Mrs. Helga Stephansson, Markerville, Alberta; Mrs. Margrét Byron, Winnipeg; Mrs. Gróa Brynjólfsson, Winnipeg; Mrs. Valgerður Thordarson, Winnipeg; Ásbjörn Sturlaugsson, Akra, N. Dak.; Sigurður M. Melsted, Mountain, N. Dak.: Grímur Laxdal, Árborg; Mrs. Kristín Schram, Árborg; B. G. Thorvaldson, Piney, Carl Anderson, Winnipeg; Mrs. Chris. Johnson, Duluth, Minnesota, og Sigurður Sölvason, Winnipeg.

Með söknuði í huga þökkum vér þessum félgssystkinum fyrir trygðina við vor sameiginlegu áhugamál og tjáum skyldmennum þeirra innilega hluttekning vora.

Þá barst mér laust fyrir helgina sú harmafregn, að látist hefði skyndilega heiðursfélagi vor, Dr. Frank Stanton Cowley, prófessor í Norðurlandamálum við Harvard háskóla. Hann var hinn einlægasti Íslandsvinur, fræðimaður góður og drengur hinn besti. **Er því mikil eftirsjá að honum.** Hefi eg þegar bréflega vottað ekkju hans samúð félags vors út af fráfalli hans á besta skeiði.

Stjórnarnefnd félagsins hefir leyst af hendi þau verk, sem henni voru falin, eftir því, sem ástæður leyfðu og hagkvæmt þótti; auk þess berast henni jafnan einhver ný mál til fyrirgreiðslu. Er mér skylt og ljúft að þakka ágætt samstarf meðnefndarmanna minna og virkan áhuga þeirra á starfinu.

**Útbreiðslumál**

Útbreiðslumálið hefir eins og áður verið eitt af aðalmálum félagsins. Er það fagnaðarefni, að vér getum á þessu þingi boðið velkomna eina nýja sambandsdeild í **aðalfélagið, en það er söngfélagið** "Harpa" í Bellingham, Washington, með 24 félagsmönnum; forseti þess er Freya Bourne, en söngstjóri H. S. Helgason, tónskáld; þökkum vér stjórnendum og félagsmönnum fúsleika þeirra til að eiga samvinnu við oss. Vonum vér ennfremur, að þess verði eigi langt að bíða, að Þjóðræknisfélagið færi út hið nýja landnám sitt vestur við haf. Allmargir einstaklingar víðsvegar um álfuna hafa einnig gengið í félagið á árinu, en fjármálaritari mun leggja fram skýrslu um nýja félaga.

Þá hafa ýmsir úr stjórnarnefndinni talað máli félagsins með ræðum og erindum. Vara-forseti Gísli Jónsson flutti kveðjur félagsins á Íslendingadeginum að Gimli; ritari séra Valdimar J. Eylands flutti þar einnig ávarp; af hálfu stjórnarnefndar hélt hann og ræðu á sameiginlegum fundi deildanna í Árborg og Riverton; einnig var hann ræðumaður á samkomu Laugardagsskólans hér í borg. Þeir féhirðir Árni Eggertson og vara-féhirðir Ásmundur P. Jóhannson hafa sagt frá Íslandsför sinni á

samkomum í Winnipeg; hinn fyrnefndi flutti einnig erindi um sama efni á samkomu að Gimli og hinn síðarnefndi á samkomum deildanna í Winnipeg, Selkirk og Riverton.

Forseti flutti erindi á Lestrarfélagssamkomu að Vogar, Man., og fór erindum félagsins um íslensku bygðina á þeim slóðum. Hann hefir einnig á árinu heimsótt báðar deildir félagsins í Winnipeg, allar þrjár deildir þess í Saskatchewan og deildirnar í Selkirk og N. Dakota, og flutt ræður og erindi á samkomum, er þær stóðu að. Í Wynyard flutti hann ræðu á Íslendingadegi og erindi á ensku, og að tilhlutun deildarinnar í N. Dakota hafði hann erindi bæði að Garðar og Mountain. Þakkar hann hérmeð hinar ágætu viðtökur, sem hann átti hvarvetna að fagna. Að beiðni deildarinnar "Báran" í N. Dakota stýrði hann einnig hátíðarhöldunum við afhjúpun minnisvarða skáldsins K. N. Júlíusar, er deildin hafði komið upp með aðstoð almennings, og flutti ávarp við það tækifæri. Með bréfaskriftum hefir forseti einnig unnið að því að sameina Íslendinga um þjóðræknismálin og að því að safna nýjum félagsmönnum; en betur fer á því, að fjármálaritari skýri frá árangri þeirrar viðleitni. Loks má geta þess, að forseti hefir á liðnu ári eins og undanfarið flutt ræður á ensku og norsku um íslensk efni víðsvegar í N. Dakota og Minnesota, meðal annars tvær ræður um Leif Eiríksson og útvarpsræðu um Ísland, og birt greinar um ísl. bókmentir og menningu í blöðum og tímaritum í Bandaríkjunum.

Frá upphafi vega félagsins hefir það verið einn þáttur í starfsemi þess að veita upplýsingar um Ísland og vera á verði gagnvart kviksögum um land og þjóð, sem til vanvirðu horfa eða tjóns. Stjórnarnefnd þess lét því ekki á sér standa með að svara óhróðursgrein þeirri um Ísland, er nýlega birtist í tímaritinu *Time* og alræmd er orðin; fól nefndin ritara og forseta að mótmæla greininni og hafa bréf þeirra beggja til nefnds tímarits verið birt í *Lögbergi* og einnig getið í *Heimskringlu*. Aðrir félagsmenn, svo sem heiðursfélagi vor Thor Thors aðalræðismaður, urðu einnig til að svara greininni; þrátt fyrir það hefir engin leiðrétting hennar fengist enn sem komið er. Hitt hefir þetta mál greinilega sýnt, að Ísland á sér marga árvaka formælendur í þessari álfu, bæði meðal eldri og yngri kynslóðarinnar, og er það gleðiefni.

Auk stjórnarnefndar hafa ýmsir félagsmenn unnið að útbreiðslustarfseminni í ræðu og riti; ber þeim þökk fyrir það þarfa starf, en um það vísast annars til þjóðræknispistla minna í vikublöðunum íslensku hér vestra. Deildir félagsins hafa einnig með ýmsu móti lagt þakkarverðan skerf til útbreiðslumálanna, eins og ársskýrslur þeirra munu sýna.

**Fræðslumál**

Félagið hefir haldið uppi hinum venjulega Laugardagsskóla í íslensku hér í borg, við allmikla aðsókn, en færri hafa þó notfært sér skólann en ætla mætti og æskilegt væri. Séra Rúnólfur Marteinsson, sem verið hafði skólastjóri Laugardagsskólans árum saman, lét af kenslu þar á þessu ári, og vil eg fyrir hönd félagsins þakka honum langt og ágætt starf við skólann. Jafnframt vil eg tjá þeim konunum, sem annast hafa kensluna í ár, þakkir félagsins fyrir prýðilega unnið starf, en þær eru: Mrs. Hólmfríður Daníelsson, Mrs. Einar P. Jónson, Mrs. Frank Magnusson og Mrs. S. E. Sigurðsson. Hafa þær tvær hinar fyrstnefndu veitt skólanum forstöðu.

Ásmundur P. Jóhannsson hefir, eins og hans er vandi, sýnt hinn þakkarverðasta áhuga fyrir starfi skólans; einnig hefir Bergthor E. Johnson stutt að starfi hans. Deildir félagsins hafa sumarhverjar haldið uppi íslensku-kenslu, sem tugir barna og unglinga hafa haft not af, t. d. deildirnar í Riverton, Árborg og deildin í N. Dak. Er slík kensla hið ákjósanlegasta viðfangsefni fyrir deildir félagsins og réttlæta þær fyllilega með henni tilveru sína, þó engu öðru væri til að dreifa.

Í tilefni af athyglisverðu erindi, sem ein af kenslukonunum við Laugardagsskólann hér í Winnipeg, Mrs. Einar P. Jónsson, flutti á fundi deildarinnar "Frón" um íslensku-kenslu barna á heimilunum, mæltist forseti bréflega til samvinnu við kvenfélögin íslensku um það mál. Var bréf hans lesið og rætt á ársþingi sambands kvenfélaga beggja hinna íslensku kirkjufélaga og hlaut góðar undirtektir. Er áreiðanlega stefnt í rétta átt með þeirri samvinnu viðleitni.

**Samvinnumál við Ísland**

Þó að heimsstyrjöldin og hennar mörgu fylgjur séu þar nokkur þrándur í götu,

er með ýmsum hætti unnið að auknum kynnum og samstarfi milli Íslendinga austan hafs og vestan.

Gott dæmi þess er þátttaka félags vors og Íslendinga í landi hér í Íslandssýningunni í New York, sem nýlega var lokið. Ráðstöfun afsteypunnar af Leifsstyttunni, er sýnd var í sambandi við sýninguna og komið var upp með fjársöfnun meðal Íslendinga hérlendis, er í höndum nefndar þeirrar, sem þingið fól það mál í fyrra. Gerir hún grein fyrir starfi sínu, ef þurfa þykir.

Tveir af stjórnarnefndarmönnum, þeir Ásmundur P. Jóhannsson og Árni Eggertson og konur þeirra, dvöldu um skeið á Íslandi á liðnu sumri sem gestir Eimskipafélags Íslands; fluttu þeir kveðjur félags við ýms tækifæri heima og höfðu með höndum erindisrekstur af hálfu þess. Tveir aðrir mætir félagsmenn, þeir Gunnar Björnson í Minneapolis og Soffonías Thorkelsson, dvöldu samtímis á Íslandi. Voru þau Björnson og kona hans gestir Þjóðræknisfélagsins þar og flutti hann aðalræðuna á Vestmannadeginum. Soffonías, er unnið hefir meðal annars að útgáfu *Sögu Íslendinga í Vesturheimi*, dvelur enn á Íslandi.

Fyrir hönd félagsins sendi forseti Háskóla Íslands samfagnaðarkveðjur í tilefni af vígslu hins nýja og glæsilega háskólahúss í júní s.l.; barst félaginu einkar hlýlegt þakkarbréf frá rektor Háskólans, dr. Alexander Jóhannssyni. Félagið sendi einnig með símskeyti svohljóðandi nýárskveðju til Ríkisútvarpsins í Reykjavík: "Þjóðræknisfélagið sendir Íslendingum hugheilar nýárskveðjur." Var kveðju þessari víðvarpað til íslensku þjóðarinnar.

Þess var getið í síðustu ársskýrslu forseta, að Þjóðræknisfélag til samvinnu við oss hefði verið stofnað á Íslandi 1. des. 1939. Í nýútkomnu bréfi frá stjórnarnefnd félagsins er þannig skýrt frá markmiði þess: "Félagið var stofnað í þeim tilgangi, að efla menningarsamband Íslendinga austan og vestan hafs, að annast móttöku Vestur-Íslendinga, sem heimsækja okkur, að stuðla að Ameríkuferðum okkar heimamanna til viðkynningar og fyrirlestrahalds, að gangast fyrir árlegum Vestmannadegi og yfirleitt að efla bræðralagið með hverju því móti, sem auðið er."

Hefir Vestmannadagur verið haldinn tvö síðastliðin ár undir umsjón félagsins; einnig voru þau Gunnar Björnson og kona hans gestir þess á liðnu sumri, eins og fyr getur. Fleira vinnur félagið oss til þarfa. Það hefir átt þátt í að afla kaupenda fyrir Sögu Vestur-Íslendinga. Er þess minst hér með verðugu þakklæti. Önnur samvinnumál hefir félagið einnig með höndum. Niðurlagsorð bréfsins eru svo tímabær og svo beint til vor töluð, að eg tek þau upp í heild sinni:

"Aldrei hefir verið ríkari þörf á samstarfi allra Íslendinga en nú. Við fundum það átakanlega 1. des. 1939, þegar félag okkar var stofnað, að hin andlega menning smáþjóðanna er í hættu. Þann dag var ráðist á Finna, þá Norðurlandaþjóðina, sem fékk sjálfstæði sitt um líkt leyti og við Íslendingar. Við höfum skilið það betur með hverjum degi síðan, að örlög lýðræðisþjóðanna eru okkar örlög.

Við sendum ykkur bróðurkveðjur og óskum, að íslenskt þjóðerni og íslensk þjóðrækni megi eflast að sama skapi og hætturnar hafa aukist."

Í stjórn félagsins voru, er bréfið var ritað, Jónas Jónsson alþingismaður, formaður, Ásgeir Ásgeirsson bankastjóri og Valtýr Stefánsson ritstjóri. Núverandi formaður er Árni G. Eylands.

En að baki þeim stendur stór og vaxandi hópur áhugasamra manna og kvenna um aukna samvinnu við oss.

Í íslensku vikublöðunum hér hefir verið skýrt frá mannaskiftum þeim, sem nýlega urðu í aðalræðismannsstöðunni íslensku hér vestan hafs. Vilhjálmur Þór framkvæmdarstjóri hvarf heim til Íslands, en við starfinu tók Thor Thors alþingismaður. Vitum vér, að vér megum vænta sömu samvinnu um þjóðræknismál vor af hálfu hins síðarnefnda og vér áttum að fagna frá hinum fyrnefnda.

Þá er þess að minnast, að nú dvelur hér vestra, við framhaldsnám og ritstörf á Columbia-háskólanum í New York, Steingrímur kennari Arason, einn af allra ágætustu formælendum vorum á Íslandi. Var þess getið í ársskýrslunni í fyrra, að komist hefði til tals, að hann kæmi vestur hingað til barnakenslu og fyrirlestrahalds á vegum Þjóðræknisfélagsins; en styrjöldin varð þar þröskuldur á vegi. Mun stjórnarnefndin, hinsvegar, ef þess er kostur, reyna að notfæra sér komu Steingríms á einhvern hátt; eigi skulu þó neinar falsvonir gefnar hvað það snertir.

Allmargt námsfólk af Íslandi stundar einnig nám við háskóla vestan hafs á þessu

ári. Er oss það sérstakt ánægjuefni, að tveir efnismenn úr hópi þessa námsfólks flytja ræður á samkomum í sambandi við þjóðræknisþingið, þeir Þórhallur Ásgeirsson, er framhaldsnám stundar við ríkisháskólann í Minnesota, og Dr. Friðgeir Ólason, er ásamt konu sinni dvelur í Winnipeg við sérnám í læknisfræði. Auk þeirra eru hér við nám á Manitoba-háskóla þau Ragnhildur Þorsteinsson, Bragi Freymóðsson og Jóhannes Bjarnason, styrkþegi Kanadasjóðs.

Síðast en ekki síst er oss Íslendingum á þessum slóðum það mikið tilhlökkunarefni, að hér lætur nú til sín heyra bráðlega hin víðkunna íslenska söngkona, ungfrú María Markan, sem getið hefir sér frægðarorð víða um lönd. Annast stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins undirbúning söngsamkomu hennar, með aðstoð G. L. Jóhannson ræðismanns, sem verið hefir nefndinni hjálplegur á ýmsan hátt.

**Saga Íslendinga í Vesturheimi**

Skýrt var ítarlega frá tildrögum þessa máls og framgangi þess á síðasta þingi. Síðan hefir svo langt þokast í áttina, að út er komið fyrsta bindi sögunnar. Hefir það þegar vakið mikla athygli beggja megin hafsins, en hlotið all-misjafna dóma. Munu þó flestir viðurkenna, að merkilegt spor hafi stigið verið, er hafist var handa um útgáfu sögu Íslendinga í landi hér. Mál þetta hefir einnig fengið stuðning hinna ágætustu manna heima á Íslandi, eins og að framan var vikið að. Ætti það út af fyrir sig að vera hvatning fyrir oss um að halda verkinu áfram og vanda til þess sem allra mest; annað tel eg oss til vansæmdar. Ræði eg það mál svo eigi frekar að sinni, því að nefnd sú, er það hefir með höndum, mun leggja fram skýrslu um gjörðir sínar.

Aðrar nefndir, sem gera munu grein fyrir starfi sínu, eru: **minjasafns**-nefndin, nefnd sú, er safna skal **þjóðræknislegum fróðleik** (sögnum, söngvum og kvæðum), **rithöfundarsjóðs**-nefndin og nefnd sú, er **endurskoða** skyldi 21. grein félagslaganna.

**Útgáfumál**

*Tímarit* félagsins er fullprentað og verður venju samkvæmt útbýtt á þinginu. Vara-forseti Gísli Jónsson er ritstjórinn, og má fyllilega vænta þess, að ritið verði í höndum hans bæði vandað og fjölbreytt að innihaldi. Er ritstjórnarstarf þetta mikilvægur þáttur í starfsemi félagsins og að sama skapi þakkarvert. Fyrir einróma áskorun stjórnarnefndar tókst Ásmundur P. Jóhannsson á hendur að safna auglýsingum fyrir *Tímaritið*; hefir hann gengið að því verki með alkunnum dugnaði sínum og orðið ágætlega ágengt.

Síðasta þing fól stjórnarnefndinni að gefa út barnablaðið *Baldursbrá*, en þegar til kom, urðu kaupendur blaðsins svo fáir, að nefndin sá sér ekki fært að halda áfram útgáfunni í bráðina, og var nefndarmönnum mjög óljúft að taka þá ákvörðun. Hins vegar eru miklar byrgðir eldri árganga ritsins fyrir hendi. Gefst mönnum tækifæri til að ræða það mál, er útgáfumálin koma á dagskrá.

**Jóns Bjarnasonar skóli**

Eins og fólk vort veit, hætti Jóns Bjarnasonar skóli kenslu á síðastliðnu ári. Var þá skólahús hans til sölu við mjög sanngjörnu verði. Þótti stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins miður fara, ef hús þessarar einu íslensku mentastofnunar vestan hafs lenti í höndum annara þjóða manna. Réðst nefndin því í að kaupa skólahúsið fyrir félagsins hönd, með það fyrir augum, að húsið gæti að einhverju leyti orðið skjól starfsemi félagsins og að svo mætti um hnútana búa, að það yrði félaginu nokkur tekjulind. Vinnur nefnd sú, er stjórnarnefndin fól húsmál þetta, að úrlausn þess og mun greiðlega á sínum tíma svara fyrirspurnum um það á þinginu. Um fjárhag félagsins í heild sinni nægir að vísa til upplýsinga í prentuðum skýrslum þeirra féhirðis Árna Eggertson, fjármálaritara Guðmanns Levy og skjalavarðar Ólafs Pétursson.



Þrátt fyrir erfiðleika yfirstandandi tíðar, mun því mega segja, að félagið hafi haldið vel í horfinu á árinu. Skýrslur fjármálaritara munu sýna, að félagatalið hefir aukist, bæði í aðalfélaginu og í ýmsum deildanna. En í útbreiðslumálinu er þörf stöðugrar árvekni, ef félagið á eigi að ganga saman. Enn standa of margir Íslendingar utan þess, þó að skilningur á starfi þess fari vaxandi. Einkum skyldi alt kapp lagt á það, að ná til yngra fólksins. Jafnhliða skal þess þó þakksamlega minst, að deild Yngri Íslendinga í Winnipeg starfar með miklu fjöri og eykur stöðugt við sig félögum. Hitt má aldrei gleymast, að fram-

tíð félagsskapar vors til langframa hvílir á herðum yngri kynslóðarinnar.

Þjóðræknismálið er mál allra Íslendinga í landi hér, og sú hugsjón, sem vér megum aldrei missa sjónar á, er að sameina sem allra flesta Íslendinga um það mál. Það verður ekki gert með því að ganga uppgjafarstefnunni (defeatism) á hönd og halda líkræður yfir sjálfum sér. Virk framtíðartrú er það eina, sem flytur nokkurn málstað fram til sigurs. Þá trú hefi eg reynt að boða og mun halda áfram að boða framvegis í þjóðræknismálum vorum.

Í djarfmæltu kvæði sínu "Frelsi," er hann orti í tilefni af 20 ára afmæli fullveldis Íslands fyrir tveim árum síðan, komst Jón skáld Magnússon svo að orði:

"Reynslan sára veri okkur vígi.
Vandinn fram til nýrra dáða knýi.
Einni fylking tengist sál við sál.
—Litla þjóð, sem átt í vök að verjast,
vertu ei við sjálfa þig að berjast.
Stattu saman heil um heilög mál."

Þó að þessi sameiningar-boðskapur hins snjalla skálds sé sérstaklega stílaður til heimaþjóðar vorrar á örlagaríkum tímamótum hennar, á sú lögeggjan, sem í þessum ljóðlínum felst, einnig erindi til vor Íslendinga í landi hér. Í félagsmálum vorum eigum vér um margt í vök að verjast, við ramman reip að draga; sæmir oss því, að forðast sem mest alt það, er vekur óþarfa sundrung, og standa saman heilir um "heilög mál," eins og skáldið orðar það. Og hiklaust myndi hann telja varðveislu vorra andlegu erfða í flokki þeirra mála. Takist oss að skipa oss sem fastast um þau mál, minnugir þess, að "manndómsskyldan þung á öllum er," mun þess enn langt að bíða, að smíða þurfi vora þjóðræknislegu líkkistu. En það er undir oss sjálfum komið, áhuga vorum, fórnfýsi, trúmensku við góðan málstað og sjálfa oss.

Þá hugsun hefir Jón Magnússon klætt í minnistæðan búning í kvæði sínu "Vorar samt," er endurprentað hefir verið hér vestra:

"Við því búinn vertu sjálfur:
vorið fer um lönd og álfur.
Klakans þunga bráðnar blý.
Þó að myrkvist himinn hálfur,
hann mun bjartur verða á ný,
ef þú sjálfur eldinn geymir,
engri þinni skyldu gleymir.
Alt er komið undir því."

Í anda þeirrar framtíðartrúar og þeirrar eggjunar til dáða býð eg yður hjartanlega velkomin á 22. þing Þjóðræknisfélagsins. Megi það verða oss sem ánægjulegast, því að skrifað stendur, "vér, Íslands börn, vér erum vart of kát"; en um annað fram, megi þingstörfin fara oss svo úr hendi, að sæmdarauki sé að, gagn og gróði oss og þjóðstofni vorum.

**Richard Beck.**

Var forsetanum að lokinni skýrslu klappað óspart lof í lófa. Árni Eggertson gjörði tillögu, sem vara-forseti Gísli Jónsson studdi, að hin ágæta skýrsla forseta sé viðtekin af þinginu. Var það samþykt með því að allir stóðu á fætur.

Þá voru skipaðar tvær nefndir:

**Kjörbréfanefnd.** Ólafur Pétursson stakk upp á og Guðmann Levy studdi, að forseti skipi þriggja manna kjörbréfanefnd. Var tillagan borin upp og samþykt og í nefndina skipaðir Ásmundur P. Jóhannsson, Friðrik Swanson og Hjálmar Gíslason.

**Dagskrárnefnd.** Guðmann Levy stakk upp á og Jóhannes Húnfjörð studdi tillögu um að forseti skipi þriggja manna dagskrárnefnd. Var tillagan borin upp og samþykt og í nefndina skipaðir þeir Dr. Sveinn Björnson, S. S. Laxdal og Jón Húnfjörð.

Skrifari bar þá fram munnlega skýrslu, þar sem hann gjörði grein fyrir því hversu margir fundir hefðu verið haldnir á árinu af framkvæmdarnefnd félagsins og á hvaða stöðum, og einnig yfir helstu málin, sem verið hefðu á dagskrá. Var greinargjörð hans viðtekin af þinginu samkvæmt tillögu vara-forseta Gísla Jónsson og S. S. Laxdal.

Þá las féhirðir Árni Eggertsson fjárhagsskýrsluna. Var hún lögð fram í prentuðu formi, og útbýtt meðal þingmanna. Birtist þar einnig skýrsla fjármálaritara, skjalavarðar og ráðsmanns "Baldursbrár."

**Reikningur féhirðis**

yfir tekjur og gjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 15. febr. 1940 til 17. febr. 1941

TEKJUR:

17. febr. 1940:

| | |
|---|---|
| Veðbréf Dom. of Canada........$ | 500.00 |
| Veðbréf Prov. of Manitoba...... | 2,008.19 |
| Á Landsbanka Íslands ............ | 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada ........ | 95.85 |
| Á Can. Bank of Canada............ | 938.70 |
| | $ 3,544.54 |

| | | |
|---|---|---|
| Gjafir í Rithöfundasjóð | 24.63 | |
| Frá fjármálaritara | 419.93 | |
| Fyrir auglýsingar | 1,942.47 | |
| Fyrir Barnasamkomu | 49.91 | |
| Bankavextir og ágóði á veðbréfi | 139.67 | |
| Fyrir blöð frá Íslandi | 56.15 | |
| Fyrir Baldursbrá | 41.13 | |
| Borgað af dánarbúi Elíasar G. Jóhannsons | 800.00 | |
| Fyrir seldar myndir af Jóni Sigurðssyni | 11.12 | |
| Fyrir endurheimta ávísun | 3.30 | |
| Endurborgað, eldsábyrgð og skattur Jón Bjarnason skóli | 14.76 | |
| | $ 3,503.07 | |
| | $7,047.61 | |

GJÖLD:

17. febr. 1941:

| | |
|---|---|
| Borgun og kostnaður á Jón Bjarnason skóla | $ 2,443.98 |
| Kostnaður við ársþing | 107.75 |
| Ritstj. og ritlaun Tímaritsins | 250.28 |
| Prentun 21. árg. Tímaritsins | 560.41 |
| Umboðslaun á auglýsingum | 483.52 |
| Gjöld til stjórnar og ábyrgðargjöld | 12.00 |
| Veitt úr Rithöfundasjóði | 25.00 |
| Útbreiðslumál og ferðakostn. | 107.53 |
| Prentun og skriffong | 35.27 |
| Styrkur til "Baldursbrár" | 65.50 |
| Starfslaun fjármálaritara | 43.61 |
| Borgað undir Tímarit | 11.50 |
| Til dagblaða á Íslandi | 57.21 |
| Lán til söguútgáfunefndar | 600.00 |
| Laugardagsskóli | 107.60 |
| Til myndastyttu K. N. Júlíus | 25.00 |
| Frímerki, símskeyti og víxilgjöld | 19.35 |
| | $ 4,955.51 |
| Veðbréf Prov. of Manitoba | 1,004.10 |
| Veðbréf Dominion of Canada | 500.00 |
| Á Landsbanka Íslands | 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 167.84 |
| Á Canadian Bank of Commerce | 418.36 |
| | $ 2,092.10 |
| | $ 7,047.61 |

Árni Eggertson, féh.

Yfirskoðað og rétt fundið 18. febrúar, 1941.
G. L. Jóhannson S. Jakobson.

**Yfirlit yfir sjóði félagsins.**

| | | |
|---|---|---|
| 15. febr. 1940: | | |
| Í byggingarsjóði | $ 32.06 | |
| 15. febr. 1941: | | |
| Vextir | 32 | 32.38 |
| 15. febr. 1940: | | |
| Í Ingólfssjóði | $ 880.39 | |
| 15. febr. 1941: | | |
| Vextir | 4.41 | 884.80 |
| 15. febr. 1940: | | |
| Í Leifs Eiríkssonar sjóði | $ 68.08 | |
| 15. febr. 1941: | | |
| Vextir | .34 | 68.42 |
| 15. febr. 1940: | | |
| Í Rithöfundasjóði | $ 91.58 | |
| 15. febr. 1941: | | |
| Borgað í sjóðinn | 23.63 | |
| 15. febr. 1941: | | |
| Vextir | .50 | |
| | $ 115.71 | |
| 15. febr. 1941: | | |
| Útborgað á árinu | 25.00 | 90.71 |
| 15. febr. 1941: | | |
| Veðbréf og peninga innieign félagsins | | 1,015.79 |
| Alls | | $2,092.10 |
| Ennfremur lán til Söगunefndar | $ 600.00 | |
| Niðurborgun í J. B. Academy | 2,000.00 | 2,600.00 |

Árni Eggertson, féh.

**Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1940**

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 170.10 |
| Frá deildum | 252.13 |
| Frá sambandsdeildum | 14.00 |
| Seld Tímarit til utanfélagsmanna | 15.10 |
| | $ 451.33 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Póstgjöld | $ 17.05 |
| Ledger sheets, umbúðir o. fl. | 4.00 |
| Endurgreitt deildinni "Esjan" | 10.25 |
| Afhent féhirði | 419.93 |
| Á hendi hjá fjármálaritara | .10 |
| | $ 451.33 |

Guðmann Levy.

**Ársskýrsla "Baldursbrá"**

Frá 1. okt. 1939 til 1. okt. 1940.

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| 170 áskriftir | $ 85.00 |
| 2 áskriftir af 4. árgang | 1.00 |
| 3 bækur á $1.50 | 4.50 |
| 14 bækur á $100 | 14.00 |
| Á banka frá síðasta ári | 1.62 |
| | $ 106.12 |

ÚTBORGANIR:

| | |
|---|---|
| Prentun | $ 58.00 |
| Póstgjald og vélritun | 36.35 |
| Víxilgjald | .11 |
| Í sjóði | 11.66 |
| | $ 106.12 |

B. E. Johnson.

Yfirskoðað og rétt fundið, 18. febr. 1941.

G. L. Jóhannson S. Jakobson.

**"Baldursbrá" bækur**

Frá 1. okt. 1940 til 15. okt. 1941

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| 43 bækur seldar | $ 43.00 |
| Blöð seld við Laugardagsskóla | 3.50 |
| Í sjóði 1. október 1940 | 11.66 |
| | $ 58.16 |

ÚTBORGANIR:

| | |
|---|---|
| Columbia Press fyrir band | $ 14.58 |
| Víxilgjald | .75 |
| Póstgjald | 1.70 |
| | $ 17.03 |
| Afhent féhirði A. Eggertson | 41.13 |

B. E. Johnson.

Sveinn Thorwaldson lagði til og Elías Elíasson studdi tilllögu um að vísa skýrslu þessari til fjármálanefndar. Var samþykt.

Guðmann Levy las þá skýrslu fjármálaritara:

**Skýrsla fjármálaritara.**

Eins og forseti félagsins mintist á í þingsetningarræðu sinni, má segja að útbreiðslustarfsemin hafi gengið vel á árinu, vinsældir félagsins virðast stöðugt fara vaxandi, og nýir meðlimir bætast við.

Nú á þessu ári hafa 35 nýir meðlimir gengið í félagið, og flesta af þeim hefir hinn ötuli forseti okkar, Dr. Beck, fengið til að ganga í félagið, og eru margir af þeim velþektir og mikils metnir menn, svo sem prófessorarnir Sveinbjörn Johnson. Sturla Einarsson og Loftur Bjarnason. Hon. Frederick H. Fljózdal. prestarnir Guttormur Guttormsson, Albert E. Kristjánsson, sem áður voru í félaginu, en höfðu gengið úr, og Sveinbjörn Ólafsson, og svo lögfræðingarnir Ásmundur og Oscar Benson og Ragnar Johnson.

Viljum vér bjóða þessa og aðra nýja meðlimi velkomna í félagið.

Svo hefir og Dr. Beck með skrifum sínum fengið söngfélagið "Harpa" í Bellingham, Wash., sem telur 24 meðlimi, til þess nú á þessu þingi, að biðja um inngöngu í Þjóðræknisfélagið sem sambandsdeild, og vil eg leggja hér fram þá beiðni sem er svohljóðandi:

1236 Ellis Street,
Bellingham, Wash., U.S.A.
18. febrúar, 1941.

Guðm. Levy, fjármálaritari
Þjóðræknisfélags Íslendinga
í Vesturheimi.

Háttvirti herra,—

Söngfélagið "Harpa" í Bellingham, Wash., U.S.A., óskar hérmeð að fá innlimun sem sambandsdeild í Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi. Sendist hér með fyrsta árstillag, fyrir árið 1941, að upphæð $7.00 (sjö dalir).

Virðingarfylst,

Freya Bourne, forseti.

Vil eg leyfa mér, hr. forseti, að leggja til að beiðni þessi sé samþykt með því að allir standi á fætur. Með þessum 24 meðlimum, sem tilheyra söngfélaginu "Harpa", 30 nýjum meðlimum í aðalfélagið og 6 nýjum meðlimum í deildina Báran á Mountain hefir forsetinn raunverulega aukið meðlimatölu Þjóðræknisfélagsins um 60. Má slíkt heita vel gjört á einu ári.

Allar deildir félagsins hafa gert skil á árinu og sumar aukið meðlimatölu sína allmikið eins og skýrslur þeirra munu bera með sér. Tveir meðlimir hafa sagt sig úr félaginu á árinu, og forseti hefir nú þegar getið þeirra 20 meðlima, sem dáið hafa á árinu. Það er stórt skarð, og í sumum tilfellum vandfylt, en ef útbreiðsla félagsins gengur jafn vel framvegis, eins og á þessu ári, þá er engu að kvíða.

Guðman Levy.

Fjármálaritari lagði til að söngfélaginu "Harpa" í Bellingham, Wash., sé viðtaka veitt í félagið. Tillöguna studdi Sveinn Thorwaldson og var hún samþykt með því

að allir stóðu á fætur. Kristján Indriðason lagði til og Hjörtur Hjaltalín studdi tillögu um að skýrsla fjármálaritara sé viðtekin af þinginu. Samþykt.

Ólafur Pétursson lagði þá fram skýrslu skjalavarðar:

**Ársskýrsla Skjalavarðar**

Tímarit óseld í Winnipeg:

| | | |
|---|---|---|
| I-XX árg. | | |
| Hjá skjalaverði, einök.... | 5551 | |
| Hjá fjármálaritara, eintök | 23 | |
| XXI árg. | | |
| Hjá skjalaverði, eintök.... | 162 | |
| Hjá fjármálaritara, eintök | 5 | 5731 |

Tímarit á Íslandi:

| | | |
|---|---|---|
| Samkvæmt síðustu skýrslu voru á Íslandi, eintök.... | 1415 | |
| XIX árg. send til Ísl., eint. | 20 | |
| XXI ár. send til Ísl., eint. | 188 | 1623 |
| Samtals ........................ | | 7354 |

Talsvert af þessu hefir verið selt, en engin skýrsla yfir það borist til skjalavarðar.

Skýrsla yfir XXI. árg. Tímaritsins:

| | | |
|---|---|---|
| Til heiðursfélaga, rith., o. fl. | 43 | |
| Til umboðssölu á Íslandi.... | 174 | |
| Til auglýsenda Tímaritsins | 128 | |
| Til fjármálaritara .............. | 750 | |
| Hjá skjalaverði .................. | 162 | 1257 |

Útbýtt af eldri árgöngum:

Gefið til Ninette Sanatorium, eitt eint. frá byrjun. Afhent Dr. Richard Beck, eitt eint. frá byrjun.

Þjóðréttarstaða Íslands (Sérprentun):

| | | |
|---|---|---|
| Hjá umboðssala á Íslandi.... | 200 | |
| Hjá skjalaverði .................. | 100 | 300 |

Svipleiftur Samtíðarmanna, eint......... 133
Eitt eintak gefið til Ninette Sanatorium.

Bókasafn:

Deildin "Frón" hefir umsjón yfir aðal bókasafni félagsins og mun leggja fram skýrslu því viðvíkjandi.

Winnipeg, 18 febrúar 1941.

Ó. Pétursson, skjalavörður.

Yfirskoðað og rétt fundið 18. febr. 1941.

G. L. Jóhannson S. Jakobson

Var skýrslan samþykt samkvæmt tillögu Sveins Thorwaldsonar og Nikulásar Ottenson.

Mrs. Bergþór E. Johnson lagði þá fram skýrslu Baldursbrár.

Var skýrslan samþykt samkvæmt tillögu Ólafs Péturssonar og Bjarna Sveinsson.

Þá las skrifari skýrslu frá deildinni "Báran" á Mountain, N. Dak.:

**Ársskýrsla Dakota deildarinnar "Báran"**

Aðalstarf deildarinnar á næstliðnu ári má telja: Fyrst — Umsjón með bygging minnisvarða K. N. Júlíus, sem fullger var og afhjúpaður 15. september s.l. að fjölda fólks viðstöddum. Skýrslur yfir inntektir og útgjöld í sambandi við það verk hafa verið birtar í báðum ísl. blöðunum, sem sýndu að hvorttveggja stóðst á. Girðingu í kringum varðann hefir deildin ákveðið að setja upp næsta sumar á sinn kosntað.

Annað — Tilsögn í söng fyrir börn og unglinga, undir stjórn Mr. Jónatans Björnssonar, með aðstoð Miss Kathryn Arason. 25 söngæfingar voru hafðar á Garðar og 24 á Mountain — rúmlega 50, í það heila, voru þátttakendur. Tvö "concerts" voru haldin undir stjórn þessara kennara. Inntektir af báðum, að frádregnum kostnaði, $20.80. Samskot frá foreldrum barna og fleirum, $34.50. Samtals $55.30. Allur kostnaður við söngkenslu, húslán og keyrslu, $81.50. Undirbalance $28.20.

Þriðja — Tilsögn í íslensku var höfð 12 laugardaga, einn klukkutíma í hvert skifti, í skólahúsinu á Mountain. Önnur bygðarlög sáu sér ekki fært að sinna því, að undanteknum nokkrum börnum úr Eyfordbygð. Þrjátíu börn og unglingar innrituðust. Meðal aðsókn hvern kensludag 17. Kenslunni stjórnaði Miss Kristbjörg Kristjánson frá Eyford-bygð. Þeir, sem aðstoðuðu voru: Mrs. T. V. Björnson, yfirkennari við miðskólann á Mountain, Miss Lína Paulson og Th. Thorfinnson. Allur kostnaður $7.00; engar inntektir. Nokkrir af þessum nemendum tóku þátt í prógrammi á sumardaginn fyrsta. Áhugi fyrir íslensku námi fer minkandi hjá unglingunum. Mest fyrir afskiftaleysi foreldranna.

Fjórða — Samkomur: Deildin hafði þrjár samkomur á árinu. Á sumardaginn fyrsta, þar sem nokkrir góðfúsir vinir frá Winnipeg lögðu stærstan skerf til skemtiskrárinnar. Mr. B. E. Johnson, sem flutti ágætt erindi, kryddað með skáldskap eftir sig og aðra. Miss Johnson (dóttir hans) hafði framsögn á íslensku, og tókst það svo snildarlega, að öllum er minnistætt. Mr. Árni Sigurðsson las upp part úr leikritinu "Öldur" eftir séra Jakob Jónsson, og fórst vel að vanda, sem og líka varð til þess,

að margir hafa óskað að þeir fengju að sjá þetta leikrit leikið hér. Þá kom Lúðvík Kristjánsson með sín frægu x-messuljóð, sem flesta ætluðu að sprengja af hlátri. Hinar tvær samkomurnar voru "concertin", sem áður er minst, þar sem þau Dr. Richard Beck og Mrs. J. K. Ólafson fluttu sitt erindið hvort á báðum stöðum. Í fyrstu hafði verið fyrirhugað, að nokkrir af Brown-búum tækju þátt í skemtiskránni við "concertið" á Mountain, en fyrir þær hömlur, sem settar voru við að komast yfir merkjalínuna 1. júlí s.l. varð að hverfa frá því.

Að tilhlutan forseta okkar deildar, S. S. Laxdal, var gerð tilraun með að hafa samvinnu við deildina í Brown s.l. vor, þannig að deildirnar heimsæktu hvor aðra á víxl, og hjálpuðu til við prógram. Þetta lukkaðist ekki nema að hálfu leyti í þetta sinn. Um 17—20 meðlimir fóru norður á skemtifund hjá þeim. En ekki vita menn með vissu hvað mikið þeir hafa skemt Brown-búum, því þeir létu lítið yfir sjálfum sér, en mikið yfir ágætum viðtökum.

Þá stóð einnig "Báran" fyrir því að leikflokkur Sambandssafnaðar í Winnipeg kom suður með leikinn "Ofureflið" 24. maí s.l., og þó að deildin ekki græddi mikið á því fjárhagslega, þá varð koma þeirra öllum til ánægju, sem leikinn sóttu, og öllum þeim sem leiklist unna ávinningur á andlega vísu. Við þökkum því öllum þeim, sem hafa heimsótt okkur til að skemta okkur á einhvern hátt og þeim sem fylgst hafa með til að sækja samkomur þær, sem deildin hefir staðið fyrir.

Þess má einnig geta sem viðauka, að deildin stóð fyrir tveim spilafundum í desember, á Mountain og Garðar.

Á árinu hafði deildin þá 4 fundi, sem lög hennar ákveða, og auk þess nokkra stjórnarnefndarfundi. Við byrjun ársins 1940 taldi deildin 70 meðlimi, en við byrjun þessa árs 91 (fullgilda meðlimi).

1. febrúar 1940 voru í sjóði $23.02; inntektir á árinu $159.95; útgjöld $170.64; í sjóði 8. febr. 1941, $12.33. "Báran" skuldlaus.

Í umboði deildarinnar "Báran",

Th. Thorfinnson, skrifari.

Var skýrslan samþykt samkvæmt tillögu Kristjáns Indriðasonar og Sveins Thorwaldsonar.

Ásmundur P. Jóhannsson, formaður kjörbréfanefndar, lýsti nauðsyn á því að erindrekar leggi fram skírteini sín um réttindi til þingsæta.

Mrs. Sveinn Björnson lagði fram skýrslu fyrir deildina "Esjan" í Árborg.

**Skýrsla frá þjóðræknisdeildinni "Esjan" í Árborg, 1940**

Á ársfundi deildarinnar 11. febr. 1941, var meðlimatala 46, og höfðu þeir allir borgað ársgjald sitt og fengið ritið. Fimm fundir höfðu verið haldnir á árinu og var ýmislegt haft um hönd bæði til fróðleiks og skemtunar s. s. upplestur á íslenskum ljóðum, stúlkna-söngflokkur undir stjórn Miss Maríu Bjarnason, spurningar og svör um íslensk efni og margt þessu líkt. Þá höfum við og haft kaffiveitingar á eftir fundum og hafa allir farið vel ánægðir með kveldstundina. Umræður hafa farið fram um ýms efni viðvíkjandi deildinni, og á síðastliðnu hausti var ráðist í að byrja á kenslu í íslensku. Hefir sú kensla nú farið fram á þessum vetri og hafa innritast 32 börn, sem skift hefir verið niður í fjórar deildir. Kennarar eru fjórir og hefir þessi byrjun gengið framar öllum vonum. Kenslan er lestur og skrift og íslenskir söngvar, sem Miss María Bjarnason — fimti kennarinn — stýrir. Höfum við í hyggju að efna til samkomu með vorinu og láta börnin skemta með upplestri og söng til þess að sýna þann árangur, sem orðið hefir af þessu starfi.

Ársfundur deildarinnar var haldinn 11. febrúar og voru þá embættismenn kosnir fyrir næsta ár:

Gunnar Sæmundson, forseti (endurk.)
B. I. Sigvaldason, vara-forseti
Marja Björnson, ritari
Elías Elíasson, féhirðir
Dr. S. E. Björnson, fjármálaritari.

Var skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu Sveins Pálmasonar og Hjartar Hjaltalín.

Thor Marvin lagði fram skýrslu frá deildinni "Snæfell" í Churchbridge, Sask.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Snæfell" fyrir árið 1940**

Deildin hefir starfað með líkum hætti og undanfarin ár. Hefir verið leitast við að halda í horfinu eftir föngum, og leggja lið þeim málum, er verða mættu þjóðræknisstarfinu til eflingar.

Starfsfundir hafa verið haldnir þrír á árinu og tvær skemtisamkomur. Auk þess

hefir stjórnarnefndin haft samtalsfundi til að ráðstafa málefnum félagsins.

Meðlimatalan er álíka og verið hefir; deildin telur nú 20 góða og gilda meðlimi. Á síðastliðnu sumri heimsótti forseti Þjóðræknisfélagsins, Dr. Richard Beck, deildina. Flutti hann snjalt erindi um þjóðræknismálin, í fundarhúsi bygðarinnar, og var aðsókn, eftir atvikum, góð. Mun óhætt að fullyrða, að koma hans varð til þess að glæða áhuga fyrir málefnum deildarinnar hjá þeim er á hann hlýddu. Er deildin Dr. Beck innilega þakklát fyrir komuna.

Tekjur urðu ekki miklar á árinu, en meirihluta þeirra var varið til bókakaupa, og samkvæmt skýrslum bókavarðanna eru bækurnar mikið lesnar af félagsmönnum.

Vinsamlegast,

Einar Sigurðsson, ritari.

Var skýrsla þessi samþykt, samkvæmt tillögu A. P. Jóhannsons og Gunnbjörns Stefánssons.

Skrifari las upp skýrslu dagskrárnefndar:

Nefndin, sem skipuð var til þess að yfirvega dagskrá þingsins leyfir sér að leggja til, að þingmál verði tekin fyrir eins og hér segir:

1. Þingsetning. Lestur hraðskeyta og bréfa o. s. frv.
2. Skýrslur forseta og annara nefndarmanna.
3. Kosning kjörbréfa og dagskrárnefndar.
4. Skýrslur frá deildum.
5. Skýrslur milliþinganefnda.
6. Fræðslumál.
7. Fjármál.
8. Samvinnumál.
9. Útgáfumál.
10. Bókasöfn.
12. Minjasafnið.
13. Rithöfundasjóður.
14. Sögumál.
15. Kosning embættismanna kl. 2 e. h. þann 26.
16. Ný mál.
17. Ólokin störf.

S. E. Björnson
S. S. Laxdal
J. Húnfjörð.

Var hún samþykt samkvæmt tillögu frá Arnljóti Ólson og Ásmundi P. Jóhannssyni.

Með því að liðið var að hádegi gjörði Bjarni Sveinsson tillögu, sem Nikulás Ottenson studdi, um fundarhlé, unz kl. 1.30 e. h. Var tillagan samþykt og fundi frestað til hins ákveðna tíma.

II. FUNDUR

var settur kl. 2 e. h. Fundargjörningur fyrsta fundar var lesinn og þar sem engar athugasemdir voru við hann gjörðar lýsti fundarstjóri hann rétt bókaðan. Bar forseti þá fram kveðjur frá Páli Guðmundssyni í Leslie, Rósmundi Árnasyni í Leslie og Sigfúsi Benediktsyni í Langruth, Man. Einnig las hann kvæði frá hinum síðastnefnda. Var kvæðið að efninu til þjóðræknishvöt til þingsins. Fór forseti að loknum lestri nokkrum vingjarnlegum orðum um höfundinn og kvæðið. Þá las ritari skýrslur frá deildum:

**Ársskýrsla "Iðunnar" að Leslie**

Það hefir ekki verið margbrotið starf deildarinnar í ár. Er þar margt, sem kemur til greina; en þó ef til vill mest áberandi, að meðlimir eru að verða gamlir og stirðir til snúninga. Stendur íslenskur félagsskapur hér flestum öðrum ver að vígi, þar sem ekkert æskublóð streymir til fjörgva og starfa. Meðlimatölu hefir heldur fækkað, þó telur deildin enn 24 meðlimi, og má það gott kallast, þegar tekið er til greina okkar íslenska fámenni hér við Leslie. Þrír starfsfundir hafa verið haldnir á árinu. Þar á milli hefir stjórnar- og bókanefnd deildarinnar komið saman og ráðstafað því, sem þurfa þótti.

Samkoma var haldin í ágúst sem algjörlega var að þakka komu forseta Þjóðræknisfélagsins, Dr. Beck. Flutti hann þar snjalt erindi, sem alla hversdags ólund rak á dyr. Þá gafst mörgum Leslie-búum tækifæri að kynnast okkar velmetna og alúðlega forseta; var það eitt fyrir sig: "hressandi og heilnæmt og heimskuna dæmir í bann."

Mrs. Sigríður Thorsteinsson frá Wynyard skemti með söng. Páll Magnússon söng lag, er hann sjálfur hafði ort við "Æfintýri á gönguför" eftir K. N. Samkoman var ágæt og deildin þakkar þeim er skemtu. Mesta verk deildarinnar er falið í starfrækslu bókasafnsins. Kaupgeta deildarinnar er ekki mikil, en þó hafa árlega verið keyptar nýjar bækur og lestraráhugi meðlima haldist óseðjandi.

Skýrsla féhirðis sýnir inntektir á árinu að viðlögðum fyrra árs sjóði $64.45; útgjöld á árinu $49.78; í sjóði um áramót $19.67.

Með kærri kveðju til þingsins.
Leslie, Sask. 21. febr. 1941.
Virðingarfylst,
Rósm. Árnason, ritari.

Var skýrslan samþykt samkv. tillögu Árna Eggertsons og Jóns Húnfjörð.

**Ársskýrsla deildarinnar "Brúin," Selkirk fyrir 1940**

Deildin telur nú yfir 60 fullgilda meðlimi. Það hafa bæst í deildina margir meðlimir á árinu og mun bókadeildin hafa átt mikinn þátt í því. Bókasafn deildarinnar hefir aukist að mun síðastliðið ár. Nýjar bækur hafa verið keyptar og eins hafa bækur verið bundnar inn og aðrar endurbættar.

Almennir fundir hafa ekki nema fáir verið haldnir á árinu. En þó hefir stjórnarnefnd og aðrar nefndir oft haft fund með sér.

Íslenskukensla fór fram í fyrravetur eins og að undanförnu, en nú í ár var hætt við kensluna, þar á meðal vegna þess að fjárhagur deildarinnar er ekki góður, og jafnframt að kenslustyrkur aðalfélagsins hefir verið minkaður ár frá ári.

Fjárhagsskýrsla féhirðis er sem fylgir:

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $ 38.06 |
| Ágóði af tombólu | 35.55 |
| Ágóði af leikriti | 17.75 |
| Ágóði af samkomu | 3.40 |
| Ágóði af spilasamkepni | 4.76 |
| Kenslustyrkur aðalfélagsins | 20.00 |
| Meðlimagjöld | 58.00 |
| | $177.52 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Fyrir bókaskápinn | $ 46.15 |
| Laun fyrir íslenskukenslu | 40.00 |
| Fargjöld erindreka | 9.00 |
| Húslán | 23.00 |
| Iðgjöld til aðalfélagsins | 29.00 |
| Ýmislegt | 1.15 |
| Í sjóði | 29.22 |
| | $177.52 |

T. S. Thorsteinson, skrifari.

Var skýrslan samþykt samkvæmt tillögu Jóns Húnfjörð og Gísla Sigmundssonar.

**Ársskýrsla deildarinnar "Ísland", Brown, Man., 1941**

Litlar fréttir eru frá deildinni okkar. Starfið gengur líkt og áður. Meðlimatala sú sama og verið hefir. Við höfðum fimm (5) fundi á árinu, sem leið og voru þeir vel sóttir af félagsfólki, og skemtilegir.

Þann 1. júní síðastliðinn heimsótti Norður Dakota fólk okkur, samkvæmt ráðstöfun Mr. S. S. Laxdal, forseta "Bárunnar", og áttum við að endurgjalda þessa heimsókn með því að koma á fund til þeirra og taka þátt í prógrammi, og var töluverður undirbúningur hér undir þá ferð, en vissra hluta vegna drógst þessi fundur, sem við áttum að taka þátt í þar til 1. júlí, en þá voru svo miklar hömlur settar á ferðalag fólks suður yfir "línuna" eða landamærin. að af þessari ferð gat ekki orðið, en tilhlökkun fólks hvað þessari heimsókn viðvék var mjög mikil.

Tuttugu og sex (26) manns heimsótti okkur að sunnan, og tók að sér að skemta okkur þetta kveld, sem það líka gjörði, og það með ágætum vel.

Ræður héldu séra Haraldur Sigmar, Sigm. Laxdal og Gamalíel Thorleifson, svo söng Jónatan Björnson tvær sólós, en Miss Kathryn Arason lék á píanó. Einnig flutti Guðmundur Jónasson frumort kvæði til deildarinnar okkar og bygðarinnar. Við erum mjög þakklát þessum góðu vinum og höfðum framúrskarandi mikla ánægju af þessari heimsókn.

Ef til vill væri ekki úr vegi af þinginu að hvetja deildir til að heimsækja hver aðra, þar sem of mikil fjarlægð ekki er til fyrirstöðu.

Svo vil eg geta þess að embættismenn deildarinnar, kosnir á ársfundi 7. þ. mán. voru:

Forseti, Thomas Thomasson
Ritari, Guðrún Thomasson
Fjárm. ritari, Jonathan Thomasson
Féhirðir, Thorst. J. Gíslason.
Með bestu óskum til þingsins.
Virðingarfylst,
Thorsteinn J, Gíslason.
17. febrúar 1941.

Var skýrslan samþykt samkvæmt till. Ara Magnússonar og Arnljóts Olsons.

Skýrsla frá The Icelandic Junior League var lesin af Mrs. Hannes Lindal:

**The Annual Report of the "Junior Icelandic League" February 1940 to February 1941**

I would like to begin my report by presenting the financial statement which is as follows:

Receipts:

| | |
|---|---|
| Jan. 1, Balance in bank............$ | 100.60 |
| Feb. 19, Concert, I.O.G.T. Hall | 70.00 |
| Apr. 1, Concert, I.O.G.T. Hall | 23.00 |
| Sept., Donations towards I.O. D.E. scholarship, Exec. Icel. National League .................. | 15.00 |
| Mr. Paul Bardal ...................... | 20.00 |
| Dec. 6, Iceland's Independence Day, dance, Marl. Hotel........ | 116.25 |
| Membership fees ...................... | 53.50 |
| Bank Interest .......................... | 1.53 |
| Total ..................................$ | 399.88 |

Disbursements:

| | |
|---|---|
| Feb. 19, Fee, Icelandic National League ....................................$ | 7.00 |
| Feb. 19, Concert, I.O.G.T. Hall | 26.00 |
| Apr. 1, Concert, I.O.G.T. Hall | 20.88 |
| Sept. I.O.D.E. Scholarship fund | 50.00 |
| Dec. 6, Dance, Merloborough Hotel ...................................... | 101.51 |
| Donations to Red Cross ........ | 39.74 |
| Printing, Stationery, stamps etc. | 21.53 |
| Rent and other incidentals .... | 14.13 |
| Exp. incidental to: Luncheon for Mrs. L. G. Salverson; presentation to Mr. I. Stefansson; flowers for funerals of Dr. R. Petursson and Mr. Thordarson; donation to Fresh Air Camp, Hnausa.... | 16.25 |
| Total ..................................$ | 297.04 |
| Balance in bank .......................$ | 102.84 |
| Total ..................................$ | 399.88 |

M. Halldorson, Treasurer.

In the past our society has had great success in holding meetings in private homes, in fact so successful have the meetings been that they threatened to outgrow the accommodations. We decided therefore to try and hold meetings in Club Rooms. However of the five general meetings held this past year the two most successful were those held in private homes, and I would like to take this opportunity of expressing our hearty thanks to Miss Olga Benson and Mr. and Mrs. Peter Anderson for their hospitality and kindness in permitting us to hold meetings in their homes. Such hospitality as they have shown is greatly appreciated.

The attendance at our meetings have ranged anywhere from 40 to 100 present. All our meetings have been held with the object of being entertaining as well as instructive. At our meetings we have had several guest speakers and artists. Among these have been Mrs. Hjalmur Danielson, Miss Dora Sigurdson, Dr. Richard Beck, and Miss S. Sigurdson. At one meeting moving pictures were shown by the Ford Motor Company. It has been a pleasure and privilege to have these people with us and we are grateful to them for giving us of their time and talents.

We continue our custom of observing Iceland's Independence Day by holding a dance at the Marlborough Hotel on December 6th, 1940. Our Patroness for the evening was Mrs. W. J. Lindal. Mr. S. Sigmundson spoke briefly about the purpose of the gathering with direct reference to Iceland's Independence Day. The proceeds of the dance were donated to the Red Cross.

We assumed the responsibility of collecting $50.00 for the I.O.D.E. scholarship fund. This has been covered in the Financial Report so further reference to it here is not necessary.

As usual, in addition to general meetings we have held numerous outings and sport events which were enjoyed by those members and their friends who took part in them. One of the outstanding of the sport events was the holding of an Archery Contest at the Icelandic Celebration at Gimli last summer.

Another achievement of the year was a final decision about a name. By popular vote our present name was decided upon. Following this, membership cards were printed and plans made for a membership drive. We have already a membership numbering approximately 75, but with a considerable additional number who have attended meetings and other events. Our purpose is now to strengthen our organization and increase its membership. With that end in view a membership organizer was appointed in the person of S. Sigmundson. Good results are looked for.

At the last general meeting the Officers for the present year were elected as follows:

President — O. B. Petursson
Vice-President — A. Eggertson
Treasurer — Miss M. Halldorson
Secretary — Miss G. Reykdal

Members at large — S. Sigmundson, Geo. Asgeirsson, H. Danielson.

Social Committee — Thora Arnason, Gisli Borgford, Helen Halldorson, Sigrun Lindal, Harold Johnson.

Sports Committee — Petur B. Petursson, Tom Finnbogason, Thor Sigurdson, Hazel Reykdal, Gudrun Eggertson.

This concludes this report of the Junior Icelandic League and it is respectfully submitted to the Icelandic National League at this its Annual Meeting.

O. B. Peturson, President.

Mr. Lindal framvísaði einnig bók: "Bahá'u'lláh og Nýi Tíminn" eftir höfund nokkurn er Esslement heitir. Var bókin þegin með þökkum, og skýrsla The Icelandic Junior League samþykt með þakklæti samkvæmt tillögu frá Ara Magnússyni og Thor Marvin.

Mr. S. S. Laxdal reis úr sæti sínu og lýsti ágætum bókakosti deildarinnar "Báran" á Mountain. Kvað ræðumaður deildina eiga milli átta og níu hundruð eintök í safni sínu, og hefði á síðastliðnu ári verið varið $30.00 til bókakaupa og bókaaðgjörða. Einnig hefði deildinni áskotnast bækur úr ýmsum áttum.

Frá deildinni "Frón" í Winnipeg lagði Guttormur Finnbogason fram skýrslu; var hún samþykt samkvæmt tillögu S. S. Laxdal og Hjartar Hjaltalín.

**Skýrsla deildarinnar "Frón" fyrir árið 1940**

Deildin "Frón" hefir eins og að undanförnu haldið uppi almennum fundum til skemtunar og fróðleiks, sem allir hafa farið fram á íslensku, að undantekinni einni ræðu, sem Mr. Stefan Hansen hélt á ensku. Alls voru 5 fundir haldnir á árinu. Þeir, sem hafa flutt erindi á þessum fundum eru: K. J. Austman, Mrs. E. P. Jónsson, Mr. Björn Stefánsson, Mr. Stefan Hansen, Mr. Ásmundur P. Jóhannsson, Páll S. Pálsson, próf. R. Beck og séra V. J. Eylands. Söngfólk, sem skemt hefir með söng var Mrs. Grace Johnson og Mr. Alex Johnson. Öllu þessu fólki er deildin hjartanlega þakklát fyrir hjálpina.

Herra Soffanias Thorkelsson, forseti deildarinnar fór heim til Íslands í vor sem leið og hefir vara-forseti Ragnar H. Ragnar fylt þann sess síðan. Hann var kosinn forseti á síðasta ársfundi félagsins.

Hin árlega skemtisamkoma "Fróns" var haldin 20. febrúar 1940. Mótið var vel sótt að vanda og var að öllu leyti hið ánægjulegasta. Íslendingar eiga heiður og þökk fyrir hvað vel þeir sækja þessa al-íslensku samkomu. Ágóðinn af samkomunni var $180.00.

Skuldlausir meðlimir deildarinnar eru nú 194, — 31 meðlimur hafa gengið í deildina á árinu. Í sjóði við lok starfsársins voru $136.40.

Samkvæmt skýrslu bókasafnsnefndar eru nú 1619 bækur skrásettar til útláns. Á árinu voru keyptar 92 nýjar bækur, af þeim voru 25 bækur endurseldar. 60 bækur voru bundnar á árinu.

Bókagjafir á árinu voru frá Mrs. Jónu Goodman, 3 bækur; Mrs. Rósu Bjarnason, biblía í leðurbandi, hundrað ára gömul; Einari Gíslasyni á Gimli, 300 bækur; Guðmundi Goodman, Wynyard, 900 bækur. 140 félagsmenn nota safnið. Bókaútlán 5,000.

Deildin vottar þessum bókagefendum innilegar þakkir fyrir gjafirnar.

Deildin tók að sér á árinu að viðhalda söngflokki barna í Winnipeg, sem einum þætti í þjóðræknisstarfsemi félagsins. Hefir flokkurinn verið starfandi síðan um nýár, og syngur nú á Frónsmótinu annað kveld.

Mr. Soffanias Thorkelsson gaf deildinni radio til hlutaveltu, sem dregið verður um annað kveld.

G. Finnbogason, ritari
R. H. Ragnar, forseti.

Skýrsla Laugardagsskólans var lögð fram af Mrs. E. P. Jónson:

**Skýrsla Laugardagsskóla Þjóðræknisfél.**

Síðastliðnu skólaári lauk með samkomu, sem haldin var í Apríl í Fyrstu lútersku kirkju. Seinni part þess vetrar höfðu börnin æft stutt leikrit er sýnt var á samkomunni og var gerður góður rómur að. Var það einkum á orði haft, hve skýrt og skilmerkilega þau hefðu borið íslenskuna fram. Auk þessa skemti börnin með framsögn og ágætum kórsöng, er Mrs. H. F. Danielsson hafði æft.

Í lok ársins létu af starfi Mrs. Carl Frederickson, sem kent hafði við skólann í eitt ár og skólastjórinn, séra Rúnólfur Marteinsson, sem stutt hefir skólann frá upphafi með ráði og dáð.

Þetta ár hafa starfað við skólann þessir kennarar: Mrs. Frank Magnússon, Mrs.

S. E. Sigurdson, Mrs. E. P. Jónsson og Mrs. H. F. Danielson. Miss Ingibjörg Sigurgeirson hefir annast um undirspil fyrir söngflokk skólans. Mr. Ásmundur P.. Jóhannsson hefir haft yfirumsjón með skólanum eins og að undanförnu.

Skólinn byrjaði 28. sept. og 60 börn hafa innritast. Meðal aðsókn hefir verið um 40, stundum fleiri og stundum færri.

Kenslutími er frá kl. 10 til kl. 11.30 á laugardagsmorgna. Börnunum er kent að lesa, stafsetning, dálítið í málfræði, kvæði, og að skrifa stutt bréf. Lögð hefir verið sérstök rækt við kenslu íslenskra söngva, nemendum og kennurum til hinnar mestu ánægju.

Framför barnanna hefir verið góð og þau hafa mörg sýnt mikinn áhuga fyrir íslensku-náminu og nú er verið að undirbúa árslokasamkomu skólans, sem haldin verður laugardaginn 19. apríl.

Ingibjörg M. Jónsson
Hólmfríður Danielsson
Á. P. Jóhannsson.

Skýrslan var samþykt samkvæmt till. Gísla Jónssonar og Bjarna Sveinssonar.

Álit kjörbréfanefndar var lagt fram af Ásm. P. Jóhannssyni. Taldi hann að nokkrir erindrekar myndu enn ókomnir til þings; næði skýrslan því aðeins yfir þá, sem komnir væru á þingstaðinn og yrði að bæta við hana eftir því sem menn gæfu sig fram:

**Nefndarálit kjörbréfanefndar þjóðræknisþingsins 1941**

Fulltrúar frá eftirfarandi deildum eru staddir á þinginu, og hafa aktvæði sem hér segir:

Deildin "Brúin", Selkirk — 58 atkv.:
Bjarni Dalmann....................20
Einar Magnússon....................19
Mrs. Ásta Eiríksson....................19

Deildin "Snæfell", Churchbridge, Sask. — 18 atkv.:
Þórarinn Marvin....................18

Deildin "Ísafold", Riverton — 35 atkv.:
Gísli Sigmundson....................19
Mrs. E. J. Melan....................16

Deildin "Esjan," Árborg — 46 atkv:
Dr. S. E. Björnson....................12
Mrs. S. E. Björnson....................12
Elías Elíasson....................12
Gunnar Sæmundsson....................10

Deildin "Báran," Mountain, N. Dak. — 90 atkv.:
Chr. Indriðason....................18
Haraldur Ólafsson....................18
B. Thorvardsson....................18
S. S. Laxdal....................19
H. J. Hjaltalín....................18

Deildin "Ísland," Brown, Man.—22 atkv.:
J. J. Húnfjörð....................20

Deildin "Fjallkonan," Wynyard, Sask. — 44 atkv.:
Hefir ekki enn sent fulltrúa.

Á. P. Jóhannsson
Friðrik Swanson
H. Gíslason.

Jón Húnfjörð gjörði till., sem S. S. Laxdal studdi um að samþykkja skýrslu kjörbréfanefndar. Var það samþykt. Voru þá teknar fyrir skýrslur

**Milliþinganefnda**

Árni Eggertson gaf munnlega skýrslu um **rithöfundasjóðinn**. Enginn fundur hafði verið haldinn á árinu í nefnd þeirri, er um þetta mál fjallar, og fátt orðið um fjárdrætti. Taldi ræðumaður þetta aðeins bráðabirgðaskýrslu, og mundi frekari greinargjörð koma síðar. Séra Guðm. Árnason kvaddi sér hljóðs og ræddi um ýmsar leiðir til að safna fé í þennan sjóð. Var þar einkum um að ræða bein samskot á þingi og almenn tillög frá velunnurum málsins. Bjóst ræðumaður við að fyrri aðferðin mundi reynast heppilegri og mælti með því að hún yrði notuð í þetta sinn. Sveinn Thorwaldson tók einnig til máls, vildi hann hefja samskot fyrir rithöfundasjóð nú þegar. Séra Guðmundur Árnason gjörði till. sem Sveinn Thorwaldson studdi þess efnis að kl. 3 á þriðjudag skuli leitað samskota hjá viðstöddum þingmönnum til stuðnings þessu máli. Eftir nokkrar umræður var tillagan samþykt.

2. Séra Guðmundur Árnason gjörði munnlega grein fyrir starfi nefndar þeirrar, sem hefir með höndum söfnun **þjóðlegra fræða**. Hafði nokkuð safnast af þessu tagi á árinu, og er það í vörslum framsögumanns nefndarinnar.

Ritari lagði þá fram skýrslu sögunefndar:

**Skýrsla Sögunefndar**

Sögunefndin er nú skipuð tólf mönnum. Eru það þeir J. K. Jónasson, Soffanias Thorkelsson, Sveinn Pálmason, Rúnólfur Marteinsson, Einar Páll Jónsson, Richard Beck, Sigurður Júl. Jóhannesson, Brandur J. Brandson, Hjálmar A. Bergman, Guðmundur Árnason, og Valdimar J. Eylands.

Nefndin hefir haft fimm fundi á árinu, en vegna fjarlægðar hefir sumum nefndarmönnum ekki verið auðið að sækja fundi.

Fyrsta fjórtán mánuðina var sögumálið, svo sem kunnugt er borið uppi af áhuga og rausn eins nefndarmanna, hr. Soffaníasar Thorkelssonar, sem bauðst til að standast straum af fyrsta bindi hins fyrirhugaða ritverks uns það væri komið á bókamarkaðinn. Á síðasta þingi Þjóðræknisfélagsins varð það þegar ljóst, að til þess að verkið gæti haldið áfram, er fjárhagsleg ábyrgð hr. Thorkelssons þryti, yrði því að koma peningaleg hjálp úr einhverri átt. Hljóp þá þjóðræknisþingið drengilega undir bagga og heimilaði sex hundruð dollara lán úr sjóði sínum til fyrirtækisins. 1. júní s.l. hætti kostnaðarmaður 1. bindis útborgunum sínum til söguritara; höfðu þá bein tillög hans til söguritara numið rúmlega $1200.00. Var þá ekki til annars að grípa en lánsfjár Þjóðræknisfélagsins, og var það notað til kaupgreiðslu söguritarans frá 1. júní til 1. desember 1940. Var honum tjáð bréflega að eigi yrði auðið að greiða honum kaup frá þeim degi vegna fjárþurðar Samt hefir hann haldið áfram ritverkum sínum með þeim árangri sem síðar mun vikið að.

Einn sögunefndarmanna, hr. Soffanías Thorkelsson brá sér, sem kunnugt er, til Íslands skömmu eftir síðasta þjóðræknisþing. Var honum falið af nefndinni að leita fyrir sér á Íslandi um prentun 1. bindis bókarinnar, og gefið umboð til að semja við prentsmiðjur þar um verkið, ef hann teldi sig komast að hagkvæmum samningum í því efni. Til samanburðar hafði hann með sér til hliðsjónar tilboð um prentun bókarinnar frá íslensku prentsmiðjunum hér í Winnipeg. Söguritari hafði gefið vonir um að handrit að fyrstu bókinni mundi tilbúið að áliðnu sumri, en sjálfsagt þótti að gera fyrirspurnir og nauðsynlegar ráðstafanir í tæka tíð. Mr. Thorkelsson mun skjótt hafa komist að þeirri niðurstöðu að hagkvæmara mundi að prenta bókina á Íslandi bæði vegna verðlags og væntanlegrar útbreiðslu bókarinnar þar í landi. En fyrir einhverjar ástæður, sem nefndinni er ekki enn fullkunnugt um taldi kostnaðarmaður nauðsynlegt að hraða prentun bókarinnar langt fram yfir það, sem upphaflega var gjört ráð fyrir. 6. maí skrifar hann formanni sögunefndar og vill fá handritið "sem allra fyrst." 25. maí sendir hann símskeyti og leggur svo fyrir að handritið skuli senda til Íslands með "Goðafossi," sem fara átti frá New York 10. júní. Þessi bréf og skeyti kostnaðarmanns komu nefndinni og söguritara allmjög á óvart. Handritið var enn ekki fullsamið, og að minsta kosti þriðjungur þess enn ólesinn af þar til kosinni ritnefnd, sem gera átti athugasemdir og gefa bendingar í sambandi við samning handritsins. Nefndin sá sér ekki fært að daufheyrast við svo ákveðnum tilmælum kostnaðarmanns um sending handritsins, og ákvað því í samráði við þá ritnefndarmenn, sem hægt var að ná til, að láta handritið fara í trausti þess að síðari hluti þess, sem þeir höfðu ekki lesið, væri engu síðri hinum fyrri. Sjálfur varð söguritarinn að hraða mjög undirbúningi handritsins, og hefði ef til vill bætt einhverju við og breytt öðru, ef tími hefði unnist til.

Í byrjun s.l. októbermánaðar er prentun bókarinnar lokið. Hingað vestur komu þrír kassar með 400 bundin og 200 óbundin eintök bókarinnar laust fyrir jól. Eftir mikla vafninga og fyrirhöfn tókst að leysa sendinguna út af tollhúsinu með drengilegri hjálp forstjóra Thorkelssons, Ltd., hr. Páls Thorkellson, sem greiddi í því sambandi $138.42, sem útheimtist í toll og önnur útgjöld.

Hófst nú nefndin handa með útsölu bókarinnar hér vestra. Hr. Einar Haralds var ráðinn aðal útsölumaður hér í borg, og sextíu mönnum víðsvegar út um bygðir var skrifað og þeir beðnir að taka að sér útsölu bókarinnar hver í sínu umdæmi. Sölulaun voru ákveðin 15% í borginni og 20% út um sveitir.

Hvernig hefir svo þessari bók verið tekið? Heima á Íslandi hefir henni, að því er virðist, verið tekið sérstaklega vel. Sem vott þess má benda á að fyrsta upplagið er þegar selt, og 500 eintök hafa þegar verið prentuð til viðbótar, og stíllinn er enn geymdur í trausti þess að þriðja prentun bókarinnar geti komið til greina. Er þetta vafalaust að þakka ötulli framgöngu Jónasar alþingismanns Jónssonar, sem skipulagði söluna á Íslandi og samherjum hans í mentamálaráði Íslands og stjórn Þjóðræknisfélagsins á Íslandi. Í bréfi til formanns sögunefndar, dags. 28. jan. s.l. segir hann: "Fólk hefir tekið bókinni vel, langar til að kaupa hana vegna efnisins og af hlýleik til landa í Vesturheimi." Er það mikilla þakka vert, að

eiga slíka áhrifa- og dugnaðarmenn að í þessu máli.

Annað, sem bendir á að bókinni hefir verið vel tekið á Íslandi eru hinir hlýlegu ritdómar, sem hún hefir fengið í íslenskum blöðum, og vinsamleg ummæli um fyrirtækið í heild sinni. Telja ýmsir forvígismenn heimaþjóðarinnar það lofsverða framtakssemi af okkar hálfu, að við höfum ráðist í þetta fyrirtæki, og telja að það muni verða sjálfri söguþjóðinni heima hvöt til að hefjast handa og rita samfelda heildarsögu sjálfrar sín.

Strax og bókin kom út lét Mentamálaráð Íslands til sín tala um að kynna hana og útbreiða. Er ráð það skipað gáfuðum áhrifamönnum, svo sem Ásgeiri Ásgeirssyni, fyrrum ráðherra, Valtý Stefánssyni ritstjóra, Jónasi Jónssyni alþm., og fleirum. Í bréfi til formanns sögunefndar, dags. 23. jan., segir Mr. Thorkelsson: "Eg hefi haft fundi með Mentamálaráðinu, og hefir það hvatt mig mjög kröftuglega til þess að hlutast til um við ykkur þarna fyrir vestan að verkinu yrði haldið áfram, og önnur bók gefin út næsta sumar eða eins fljótt og mögulegt er."

Hér vestra hefir bókin hlotið all-misjafna dóma, sumir hafa lofað hana mjög, aðrir finna henni margt til foráttu. Hér virðast samviskur manna mjög viðkvæmar fyrir öllum vansmíðum í bókmentalegum efnum. Er það í sjálfu sér lofsvert og vel farið þegar menn eru strangir við sjálfa sig og aðra og gjöra kröfur í slíkum efnum. Það ættu menn að hafa í hyggju er þeir dæma þessa bók að hér er um inngangs og undirstöðurit að ræða, sem gjörir ráð fyrir framhaldi í fleiri bindum — verkið hlýtur að dæmast í ljósi þess viðhorfs, sem málinu er fyrirhugað í heild sinni. Af sölu bókarinnar hér vestra að dæma hefir henni verið tekið með afbrigðum vel af öllum þorra manna. Aðeins 15 eintök eru nú eftir hjá bókaverði sögunefndar, af fjórum hundruðum, sem innbundin voru.

En hvað getum við sagt um framhald þessa ritverks? Þetta mál er mál Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga, en ekki mál nokkurs sérstaks flokks eða nefndar. Mér skilst að á þessu þingi Þjóðræknisfélagsins hljóti að koma fram ákveðnar raddir sem bendi ótvírætt í þá átt sem halda skal, eða gefi til kynna hvort hér skal staðar numið.

Þess vil eg líka geta að söguritarinn hefir haldið áfram starfi sínu, enda þótt enginn lífeyrir hafi borist honum að launum síðan í desember s.l. og þótt horfur málsins séu óvissar að öllu leyti. Er hann nú langt kominn með handrit að næstu bók. Fjallar hann þar um fyrstu flutningsár fólks vors hér vestur og fyrstu tildrög til bygðasögu á ýmsum stöðum. Er þar gerð grein fyrir ferðum Íslendinga í Utah, Nebraska, Alaska, Minnesota, Milwaukee, og fyrstu nýlendum Íslendinga hér í Austur-Canada, Winnipeg og Nýja Íslandi.

Að síðustu vil eg benda á höfðinglegt tilboð, sem sögunefndinni og Þjóðræknisfélaginu hefir borist í sambandi við útgáfu næstu bókar. Það barst mér í bréfi frá hr. Thorkelsson, dags. í Reykjavík, 15. jan. Hann segir: ". . . Eg mundi vera viljugur til að sjá um útgáfukostnaðinn á Íslandi á næstu bókinni, og hafa eftirlit með því, þó eg væri í Winnipeg. Þessu þurfti eg endilega að koma til þín áður en næsta þjóðræknisþing kemur saman, svo að þú komir ekki fram alveg tómhentur, eða án allra orðsendinga frá mér."

Vil eg svo að lokum þakka samnefndarmönnum mínum í sögunefndinni fyrir ánægjulega samvinnu á árinu, og blöðunum báðum fyrir alla fyrirgreiðslu þeirra, sem þau hafa svo góðfúslega látið í té í sambandi við þetta mál. Afhendi eg svo málið þessu þjóðræknisþingi í því trausti og þeirri von að heillavænleg úrlausn kunni að finnast á þeim vanda sem því fylgir, að málið megi verða í framtíðinni, eins og til er stofnað, félaginu til heilla, og Íslendingum báðu megin hafsins til vegs og sæmdar.

Sögunefndin.

S. S. Laxdal lagði til að skýrslunni skuli vísað til fjármálanefndar. Var tillagan studd af Haraldi Ólafssyni. Var till. rædd og síðan dregin til baka af framsögumönnum.

Séra Guðmundur Árnason lagði til að fimm manna þingnefnd sé kosin til að fjalla með þetta mál. Var tillagan studd af vara-forseta, Gísla Jónssyni, en eftir nokkrar umræður dregin til baka í bili.

Sveinn Thorwaldson taldi fyrsta sporið í þessu máli væri að veita skýrslu sögunefndar viðtöku, og lagði til að það væri gjört. Sveinn Pálmason studdi þá tillögu, og var hún samþykt.

Var þá aftur tekin fyrir tilaga þeirra séra Guðmundar og vara-forseta um fimm manna þingnefnd. Urðu allmiklar umræður um þessa tillögu. Hafði þegar verið stungið upp á þremur mönnum í fyrirhug-

aða þingnefnd er áður áttu sæti í sögunefndinni. Fanst ýmsum óviðkunnanlegt að sögunefndarmenn væru kvaddir til starfs í þessari þingnefnd sem hafa skyldi það hlutverk að rannsaka gjörðir sögunefndar á árinu; töldu þeir heppilegra að aðrir menn óháðir málinu skipuðu þessa nefnd. Mrs. Backman lagði til og H. Hjaltalín studdi breytingartillögu um 5 menn utan hinnar fyrri sögunefndar til að fjalla um þetta mál. Var þessi tillaga rædd um hríð. Að lokum gjörði Bjarni Dahlman breytingartillögu við br.tillögu studda af Ara Magnússyni, þess efnis að 3 menn úr fyrverandi sögunefnd að viðbættum öðrum tveimur, sem ekki hefðu verið í þeirri nefnd, væri falið þetta mál til meðferðar. Var þessi tillaga samþykt. Voru þá þessir útnefndir:

Séra Guðmundur Árnason, Ásmundur P. Jóhannsson, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Elías Elíasson, Gísli Jónsson.

Ragnar H. Ragnar lagði til að útnefningu skyldi lokið. Var sú tillaga studd af Sveini Thorwaldson. Lýsti þá forseti ofangreinda menn rétt kjörna í milliþinganefnd í sögumálinu.

Sveinn Pálmason, gjaldkeri sögunefndar gjörði munnlega grein fyrir fjárhag sögufyrirtækisins eins og hann horfir við hérna megin hafsins. Hafði bókin selst vel, en allmikið fé var enn útistandandi hjá útsölumönnum bókarinnar víðsvegar úti um bygðir. Væri þessvegna ekki unt að gjöra fullnaðarskýrslu. Þó kvað ræðumaður næstum $600.00 innkomna í sjóð sögunefndar.

**Útbreiðslumál.** Ásm. P. Jóhannsson lagði til að 5 manna nefnd sé skipuð til að fjalla með útbreiðslumál.. Var till. studd af Sveini Thorwaldson og samþykt. Hlutu þessir útnefningu forseta:

Mrs. María Björnson, Gísli Sigmundson, Bjarni Dalman, Thor Marvin, S. S. Laxdal.

**Fjármálanefnd.** Árni Eggertson lagði til og Gísli Sigmundson studdi, að forseti skipi þriggja manna fjármálanefnd. Samþykt. Voru þessir tilnefndir:

Ásmundur P. Jóhannsson, Ólafur Pétursson, Sveinn Thorwaldson.

**Fræðslumál.** Kristján Indriðason og Thor Marvin lögðu til að forseti skipi fimm manna fræðslumálanefnd. Var tillagan samþykt. Voru þessir skipaðir:

Mrs. Einar P. Jónsson, Einar Magnússon, Haraldur Ólafsson, Gunnar Sæmundson, Mrs. Eyjólfur Melan.

**Samvinnumál við Ísland.** Kristján Indriðason og Thor Marvin lögðu til að forseti skipi fimm manna nefnd til að athuga samvinnumál við Ísland. Voru þessir skipaðir af forseta:

Séra Guðmundur Árnason, Grettir L. Jóhannsson, Árni Eggertson, Ólafur Pétursson, Sveinn Thorwaldson.

**Útgáfumál.** Árni Eggertson og Thor Marvin lögðu til að forseti skipi fimm manna útgáfumálanefnd. Voru þessir útnefndir:

**Bókanefnd.** Vara-forseti Gísli Jónsson og Ari Magnússon lögðu til að slept sé að útnefna í bókanefnd að þessu sinni. Ásmundur Jóhannsson gjörði breytingartill. studda af Árna Eggertsyni að forseti skipi þrjá menn í bókasafnsnefnd. Var tillagan samþykt, og þessir tilnefndir af forseta:

Gunnbj. Stefánsson, H. T. Hjaltalín og Bergth. Thorvardson.

Forseti bauð þá velkominn til þings séra Sveinbjörn Ólafsson frá Thief River Falls, Minn., og bauð honum að ávarpa þingið. Séra Sveinbjörn flutti þá lipra ræðu á íslensku máli. Afsakaði hann sitt íslenska málfar með yfirlýsing um að hann hefði um tuttugu ára skeið verið fjarvistum frá íslensku félagslífi. Reyndist afsökun prestsins ástæðulaus hæverska, því málið lifir enn á vörum hans. Var ræða hans glöggur vottur um gildi ræktarseminnar við íslenskt mál og menning. Eigum við að vera þakklát fyrir hinn íslenska menningararf, sem okkur er í blóði borinn, hvað ræðumaður. Að hann talaði af einlægni var ljóst af látbragði hans og orðum.

Fór forseti því næst vingjarnlegum orðum um þjóðræknisstarf séra Sveinbjörns. Hefir hann árum saman unnið að því máli í kyrþey og flutt fjölda erinda um íslensk mál. Var ummælum forseta tekið með lófaklappi til heiðurs og þakkar séra Sveinbirni.

Voru því næst auglýsingar bornar fram af Gunnbirni Stefánssyni og Ásmundi P. Jóhannssyni. Var fundi þá frestað til kl. 9.30 næsta dag, samkvæmt tillögu Árna Eggertsonar og Sigmundar Laxdal. Fundi slitið.

## ÞRIÐJI FUNDUR

Þriðji fundur Þjóðræknisfélagsins var settur kl. 10 f. h. þriðjudaginn 25. febrúar 1941. Fundargjörningur síðasta fundar var lesinn upp og samþyktur með smávægilegum breytingum. Forseti las svohljóðandi

bréf frá Thor Thors, konsúl Íslands í New York:

Hinn 21. febrúar 1941.

Þjóðræknisþing Íslendinga,
Winnipeg,—

Í tilefni þjóðræknisþingsins sendi eg ykkur mínar einlægustu óskir um gifturíkt starf í hinum göfuga tilgangi að treysta böndin milli Íslendinga beggja megin hafsins.

Það hefir aldrei verið meiri þörf á samheldni og samúð allra Íslendinga en nú, er styrjöld og skálmöld geysa um allar álfur og þökk sé hverjum þeim, er leggur sinn skerf til styrktar og frelsis hins íslenska kynstofns.

Gæfa fylgi störfum ykkar og framtíð.

Með vinarkveðjum,

Thor Thors.

Þá voru tekin fyrir álit milliþinganefnda. Mrs. Bergþór Johnson lagði fram álit Minjasafnsnefndar:

**Skýrsla Minjasafnsnefndar, febrúar 1941.**

Þessir munir hafa bætst í safnið á árinu: 2 silfurhólkar — gefnir af Miss Thorgerði Thórdarson. Signet — er átti Jón Árnason — gefið af Kristjáni Jónssyni, Bredenbury; þetta signet er um 100 ára gamalt. Safnið er geymt í bókaherbergi félagsins.

B. E. Johnson
Davíð Björnsson.

Var skýrslan viðtekin og samþykt samkvæmt tillögu Árna Eggertsonar og Jóns Húnfjörð.

Þá lagði ritari fram skýrslu lagabreytinganefndar:

**Lagabreytinganefnd**

Nefndin, sem kosin var á síðasta þingi Þjóðræknisfélagsins til að athuga fyrirhugaða breytingu á 21. grein aukalaga félagsins, hefir eftir nána athugun komist að þeirri niðurstöðu að það sé með öllu óþarft að breyta lagaákvæði því, sem grein þessi fjallar um, nema þess sé óskað að fjölga tölu atkvæða þeirra, sem hver fulltrúi má fara með á þingi. Sé þess óskað má sleppa úr eða breyta næstsíðustu setningu greinarinnar. Slíka breyting telur nefndin samt ekki heppilega né nauðsynlega undir núverandi kringumstæðum Þjóðræknisfélagsins.

Nefndin telur grein þessa svo ljósa að ef nákvæmlega er farið eftir fyrirmælum hennar geti misskilningur á fulltrúavaldi erindreka trauðlega komið til greina. Mælir nefndin því með því að grein þessi sé látin standa óbreytt, eins og hún nú er.

G. Grímson
V. J. Eylands
S. S. Laxdal.

Árni Eggertson og Arnljótur Olson lögðu til að skýrsla þessi sá samþykt. Urðu nú umræður um málið á víð og dreif. Til máls tóku Ari Magnússon, Árni Eggertson, Ásmundur P. Jóhannson, Haraldur Ólafsson, Sveinn Thorwaldson, Hjálmar Gíslason og Jón Húnfjörð. Séra Guðmundur Árnason lagði til og Jón Húnfjörð studdi tillögu þess efnis að síðasta málsgrein 21. greinar aukalaga félagsins sé feld úr. Guðmann Levy benti á 28 grein aukalaga félagsins, sem fjallar um lagabreytingar. Samkvæmt grein þessari er ekki hægt að breyta lögum félagsins nema tilkynning hafi komið til stjórnarnefndar um fyrirhugaða breytingu, að minsta kosti þremur mánuðum fyrir ársþing félagsins. Forseti úrskurðaði samkvæmt þessu, að breytingartillaga Árnasons og Húnfjörðs gæti ekki komist að. Lýsti séra G. Árnason því þá að tillögu sína bæri að skoða sem tilkynning til stjórnarnefndar um væntanlega breyting á þessum lið. Var nefndarálitið þá samþykt og málið þannig afgreitt af þinginu.

Ásmundur P. Jóhannsson tók þá til máls fyrir hönd stjórnarnefndar félagsins og gjörði grein fyrir kaupinu á byggingu Jóns Bjarnasonar skóla. Gjörði hann ítarlega grein fyrir gjörðum nefndarinnar í þessu máli, og lagði að lokum fram eftirfarandi tillögu í þremur liðum:

1. Þingið lýsir samþykki sínu á gjörðum félagsins að því er snertir kaupin á Jóns Bjarnasonar skólabyggingunni á síðastliðnu ári.

2. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd fult og ótakmarkað umboð til að selja nú fasteign þessa aftur ef hagkvæmt tilboð fæst í hana.

3. Að öðrum kosti sé væntanlegri stjórnarnefnd heimilað að breyta byggingunni í íbúðir, eða ef hyggilegra þykir, að athuguðu máli, að bæta ofan á hana einni hæð, ef hagkvæmlegt lán er fáanlegt.

Urðu nú all-langar og fjörugar umræður um málið. Ari Magnússon tók fyrstur til máls. Taldi hann stjórnarnefndina hafa tekið sér gjörræðisvald í hendur er hún réðist í að kaupa fasteign þessa fyrir fé félagsins en án leyfis eða heimildar frá því. Séra Rúnólfur Marteinsson taldi ó-

hætt að treysta dómgreind og fjármálahyggindum framkvæmdarnefndar í þessu máli. Bygginguna taldi hann tvímælalaust meira virði en þess fjár, sem nefndin hefir samið um að borga fyrir hana. Gjörði hann ennfremur grein fyrir því hversvegna hætt var að starfrækja skólann. Var aðalástæðan sú, að skólanefnd Winnipegborgar gjörði ráðstafanir til þess að veita kenslu endurgjaldslaust í 12. bekk, en einmitt sá bekkur hafði verið aðaltekjulind skólans. Guðman Levy lagði til að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir lið. Tillögu þá studdi Sveinn Thorwaldson. Séra Guðm. Árnason mælti með gjörðum nefndarinnar í þessu máli. Mrs. H. Lindal vildi þakka stjórnarnefndinni fyrir framtakssemi hennar í þessu máli. Taldi hún æskilegt að byggingin væri kyr í eigu Íslendinga, gæti það þannig orðið félaginu til inntekta og um leið orðið eins konar heimili fyrir íslenskan félagsskap í Winnipeg. Sveinn Thorwaldson taldi kaupin á fasteign þessari hafa mælst vel fyrir út um bygðir. Skólamálið kvað hann hafa snert viðkvæman streng í hugum Íslendinga víðsvegar, og hefði þótt sjálfsagt að bjarga byggingunni undan hamri uppboðshaldarans.

Mrs. Bergþór E. Johnson og Mrs. H. Lindal lögðu til að 1. liður nefndarálitsins sé samþyktur, og nefndinni um leið greitt þakkaratkvæði fyrir starf hennar. Var liðurinn þó enn ræddur um hríð. Ásmundur P. Jóhannsson lofaðist til að losa félagið við alla ábyrgð í sambandi við þessi fasteignakaup fyrir 15. apríl, ef þingið vildi ekki þann samning, sem framkvæmdarnefndin hefði þegar gjört í þessu máli. Ólafur Pétursson taldi auðið að fá $5000.00 fyrir bygginguna nú þegar, svo augljóst væri að hér væri um góð kaup að ræða. Ari Magnússon taldi ekkert athugavert við fjármálahlið þessa máls, en áleit að nefndin hefði ekki haft leyfi til að taka sér vald til þess að gjöra slík kaup, væri hér lagt út á varasama braut, og þetta atriði yrði ef til vill notað síðar til fordæmis og réttlætingar öðru braski nefndarinnar, sem ekki væri eins heppilegt og þetta kynni að vera frá fjárhagslegu sjónarmiði félagsins. Var nú beðið um atkvæði, og fyrsti liður síðan samþyktur í einu hljóði.

Voru þá tveir síðari liðir nefndarskýrslunnar sameinaðir í einn, og urðu nokkrar umræður um hann. Mrs. H. Lindal benti á nauðsyn þess að koma upp lestrarstofu "club room" í byggingunni. Ásmundur P. Jóhannsson taldi óhjákvæmilegt að selja húsið ef ekki fengist hagkvæmt lán til að gjöra félaginu mögulegt að breyta því. Taldi hann ekki unt að koma fyrir lestrarstofu, nema ef vera kynni í kjallarahæð hússins. Ólafur Pétursson tók einnig til máls. Taldi hann unt að koma fyrir áminstri lestrarstofu með nýrri skipun herbergja á fyrstu hæð hússins Þegar hér var komið lögðu þeir Árni Eggertson og Carl Jónasson til að síðari liður skýrslunnar skyldi samþyktur. Var hann síðan samþyktur, og málið þannig afgreitt. Var þá fundarhlé til kl. 1.30 e. h. samkvæmt tillögu Ólafs Péturssonar og Árna Eggertsonar.

## FJÓRÐI FUNDUR

Fjórði fundur Þjóðræknisfélagsins var settur kl. 2 e. h. Fundarbók var lesin og samþykt með breyting, sem krafist var af Arnljóti Olson, að fyrirspurn hans um það, hvort Jóns Bjarnasonar skóli hefði nokkru sinni verið starfræktur af Þjóðræknisfélaginu og neitandi svar forseta, hafði verið bætt inn í fundargjörninginn á þeim stað sem það mál var til umræðu.

Forseti benti á að Minningarrit um Dr. Röngvald Pétursson væri nú til útbýtingar á þingi. Margir notuðu sér tækifærið að eignast rit þetta sem rifjar upp minning hins látna leiðtoga félagsins.

Ólafur Pétursson gjörði grein fyrir stríðssparnaðar skírteinasölu, gat þess að sérstök nefnd, skipuð Guðman Levy, Ólafi Péturssyni, Gretti Jóhannssyni og Árna Eggertsyni, yngri, hefði mál þetta með höndum. Hvatti forseti menn til að kaupa þessi skírsteini, og í sama strenginn tók einnig Ásmundur Jóhannsson og lagði hann um leið fram $40.00 tillag til þessa máls. Taldi hann það Þjóðræknisfélaginu metnaðarmál að sem mest væri keypt af þessum frímerkjum, og sýndi sanna hollustu gagnvart landi og þjóð.

Forseti vék úr sæti, til að gefa skýrslu um Leifs Eiríkssonar myndastyttuna. Er stytta þessi nú niður komin í Marine Museum í New Port News, Virginia, og verður geymd þar uns henni verður ráðstafað frekar. Liggur nú frumvarp fyrir þjóðþingi Bandaríkjanna um að taka við styttu þessari, og fá henni hentugan stað. Verður styttan, ef frumvarpið nær fram að ganga, þá skoðuð sem gjöf frá Vestur-Íslendingum til Bandaríkjanna. Skrifari, sem sat í forseta stóli, lýsti skýrsluna við-

tekna af þinginu er engar athugasemdir eða mótmæli komu fram gegn henni.

Ásmundur P. Jóhannsson flutti kveðju G. Grímsons dómara til þingsins. Var henni tekið með almennu lófaklappi.

Var þá tekið fyrir þingmál nr. 16 — **Ný mál.** Ari Magnússon, Ásm. Jóhannsson og Arnljótur Olson lögðu til að kosin væri þriggja manna þingmálanefnd. Var tillagan samþykt. Var stungið upp á þeim séra Guðmundi Árnasyni, Ara Magnússyni og Árna Eggertsyni eldra. Var útnefningu þá lokið samkv. till. Arnljótar Olsons. Voru þessir menn þá lýstir rétt kjörnir í nefnd þessa af forseta. Var þá tekið fyrir 5. mál á dagskrá:

**Milliþinganefndir**

Séra Guðmundur Árnason lagði fram álit **þingnefndar í sögumálinu.** Dr. Sig. Júl. Jóh. lagði fram álit minnihluta sömu þingnefndar; fara álitin hér á eftir:

**Nefndarálit í sögumálinu**

Nefnd sú, sem kosin var á þinginu til þess að fjalla um sögumálið, leyfir sér að leggja fram eftirfylgjandi álit og tillögur:

Svo sem kunnugt er, hefir hið fyrsta bindi Sögu Vestur-Íslendinga verið samið og gefið út með láni frá Mr. Soffaníasi Thorkelssyni og fullri ábyrgð hans.

Samkvæmt þeim skýrslum og upplýsingum, sem fyrir hendi eru, má gera ráð fyrir, að ágóði af sölu þessa fyrsta bindis verði nægur til þess að endurgreiða lánið til Mr. Thorkelssons, auk þess sem hann mun hrökkva til að borga prentunarkostnað.

Þjóðræknisfélagið hefir lánað 600 dollara til samnings annars bindis, samkvæmt samþykt, sem gerð var á síðasta þingi. En það er bersýnilegt, að sá fjárstyrkur hrekkur skamt til þess að mögulegt verði að halda verkinu áfram. Ef þess vegna áframhald á að verða á því, sem nefndin telur sjálfsagt, ef nokkur úrræði finnast, liggur í augum uppi, að einhverjar ráðstafanir verður að gera með öflun reksturfsfjár. Leggur nefndin því til að eftirfylgjandi aðferðir verði reyndar, eftir því hvor álítst heppilegri:—

I—Að framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfél og sögunefnd sé falið að gera tilraun til að safna alt að 1600 dollurum í frjálsum samskotum fyrir reksturfsfé til þessa fyrirtækis, í fullu umboði Þjóðræknisfélagsins, á svipaðan hátt og fé var safnað til Leifs Eiríkssonar myndastyttunnar, með áskorun til almennings í íslensku blöðunum.

Þingið felur framkvæmdarnefndinni að taka alt að $300.00 að láni úr banka eða úr sjóði félagsins til að greiða söguritara í bili. Skal lánsfé þetta endurgreitt til félagsins af væntanlegu samskotafé svo fljótt sem unt er.

II—Að öðrum kosti, að áskriftir verði teknar ásamt fyrirfram borgun fyrir annað bindi, og þannig fengið fé til þess að borga laun söguritara. Er áætlað að 500 áskriftir þurfi að fást.

III—Að sögunefndin sé endurkosin, og hafi hún málið með höndum í samráði við stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins; að ritnefnd sögunefndar sá ámint um að lesa vandlega yfir handrit og gefa allar þær bendingar um efni og meðferð þess, sem henni þykir með þurfa, og að þess verði krafist af söguritara, að hann taki fult tillit til þeirra.

Í því sambandi vill nefndin lýsa því yfir, að samkvæmt áliti hennar, hefir ver til tekist en skyldi með yfirlestur handrits fyrsta bindis og bendingar með tilhögun þess, án þess þó að hún gefi söguritara það að sök. Dóm á verk söguritara og sögunefndar leggur nefndin ekki, en vill taka það fram, að til þess hluta verksins, sem eftir er, verður að vanda eftir því sem framast verður unt.

Dagsett 25. febrúar 1941.

Guðm. Árnason
Á. P. Jóhannsson
Elías Elíasson.

**Minnihluta nefndarálit**

Sökum þess að Mentamálaráð Íslands hefir eindregið skorað á sögunefndina. Þjóðræknisfélagið og Vestur-Íslendinga í heild sinni að halda tafaralust áfram útgáfunni og sökum þess að handrit í annað bindi verði fullritað og tilbúið til yfirlestrar í lok maí mánaðar, og sökum þess að Soffanías Thorkelsson hefir boðist til þess að kosta prentun og band á öðru bindi á ísl., þá legg eg það til, að Þjóðræknisfélagið veiti nú þegar sex hundruð dali til sögumálsins, sem nægir til þess að koma út öðru bindi og hefji jafnframt almenn samskot, til þess að koma út 3. bindi.

Sig. Júl. Jóhannesson.

Arnljótur Olson gjörði samstundis fyrirspurn um hvort nokkur munur væri á

nefndarálitum þessum. Var þeirri spurningu svarað af framsögumanni þingnefndar, séra Guðmundi Árnasyni, á þá leið, að aðalmunurinn væri í $600.00 fjárveitingu úr sjóði félagsins, sem álit minnihlutans færi fram á. Nikulás Ottenson tók til máls og kvað enga peninga mega senda úr landi, þessvegna ekki þörf á að veita fé til söguritunar fyrir bók, sem prenta á heima á Íslandi. Mrs. Lindal benti á að peningalán þetta, ef veitt yrði, gengi til söguritarans sem á heima hér í bæ. Séra Guðmundur talaði aftur þessu máli til frekari skýringar. Mr. Sigm. S. Laxdal lagði til að bæði nefndarálitin séu tekin og rædd lið fyrir lið. Dr. S. J. J. studdi og var það samþykt. Ari Magnússon gjörði fyrirspurn um hvort hugmyndin væri að gefa út tvö bindi. Var fyrirspurninni svarað af skrífara sögunefndar á þá leið, að fyrirhugað væri að gefa út a. m. k. fjögur bindi þessarar sögu, ef unt væri.

Las skrifari þá 1. lið umrædds nefndarálits. Ólafur Pétursson gjörði fyrirspurn til ritara og fyrrum formanns sögunefndar um fjárhagsástæður í sambandi við bók þá er útkomin er. Ritari gjörði grein fyrir því á sama hátt og gjaldkeri sögunefndar hafði gjört daginn áður. Þær upplýsingar voru spyrjanda ekki fullnægjandi, og tók nú Ásmundur Jóhannson til máls og svaraði spyrjanda með ítarlegri ræðu, um leið og hann ræddi fjármálin alment eins og þau áhræra sögumálið. Taldi hann tvær leiðir mögulegar til að sjá þessu fyrirtæki farborða: (1) Að leita til fólks um almenn samskot ásama hátt og gjört hafði verið í sambandi við Leifsstyttumálið, og (2) Að taka fé úr sjóði Þjóðræknisfélagsins. Taldi hann fyrri aðferðina sjálfsagða, en þá síðari óhugsandi.

Forseti vakti nú athygli á því að sá tími væri kominn er ákveðið hefði verið að taka samskot meðal þingmanna og gesta fyrir rithöfundasjóð. Lagði Ásm. P. J. til að 15 mn. fundarhlé væri tekið til að ganga frá þessu máli. Till. studd og samþykt. Voru samskot síðan tekin er námu $37.42.

Fundur var aftur settur kl. 3.35. Ritari las aftur 1. lið álits milliþinganefndar í sögumálinu. S. S. Laxdal tók til máls og taldi þá leið heppilega sem nefndin benti á í umræddum lið. Séra Guðm. Árnason gat um að bending hefði komið frá velunnara þessa máls um að samskotaleiðin væri heppileg, og að vel færi á því að Þjóðræknisfélagið hefji samskotin með allríflegri gjöf úr sjóði. Mrs. H. Lindal taldi sjálfsagt að halda áfram með verkið, áleit hún unt að sameina tillögur meiri og minni hluta nefndarinnar. Dr. Sig. Júl. Jóh. tók til máls. Lýsti hann því að hugmyndin um söguritun þessa hefði vakað fyrir Þjóðræknisfélaginu frá upphafi. Var hann kunnugur þeim anda er ríkti í þessu máli og áhuga fyrir því, bæði fyr og síðar. Taldi hann samskotaleiðina óheppilega og ósamboðna virðingu Þjóðræknisfélagsins. Ásm. P. Jóhannson svaraði ræðu læknisins og slakaði í engu á sinni fyrri afstöðu. Árni Eggertson kvaddi sér hljóðs. Taldi hann aðal nefndarálitið hárrétt. Vildi hann hefja samskot samstundis á þingstaðnum og bauðst til að byrja með $10.00 gjöf til fyrirtækisins. Á. P. J. tók í sama streng og bauðst til að gefa $25.00. Ólafur Pétursson taldi sannað af reynslunni, að útgáfufyrirtækið mundi borga sig. Benti hann á að söguritara hefði ekki verið goldið kaup síðan 1. desember og væri nauðsynlegt að taka það til athugunar í þessu sambandi. Kvað hann svo á, að ef ekki fengist fé til að gjalda söguritara innan skamms tíma, yrði að sjálfsögðu að láta hætta verkinu. Ragnar H. Ragnar taldi fjármálin ekki aðalatriðið í þessu máli, en hitt væri meira um vert að bókin samsvaraði ekki þeim kröfum, sem gjöra verður til slíkrar bókar. Séra Guðm. Árnason benti á að þetta væri ekki venjulegt bókaútgáfu fyrirtæki. Hér væri ekki um frístundaverk að ræða, heldur væri þetta starf, sem útheimti allan tíma söguritarans, og yrði kostnaðarhliðin við það þessvegna erfiðari viðfangs. Aðferð þá, sem nefndarálitið bendir á taldi hann heppilega og lagði áherslu á það, sem hann hafði áður bent á að æskilegt væri að Þjóðræknisfélagið byrjaði samskotaviðleitni sína með ríflegri gjöf til fyrirtækisins. Mundi það skapa gott fordæmi og mælast vel fyrir. Ólafur Pétursson lagði spurningu fyrir ræðumann: Hvað á að gjöra í millitíðinni, þangað til nægilegt samskotafé kemur inn til að borga söguritara svo verkið geti haldið áfram? Framsögumaður taldi framkvæmdarnefnd og sögunefnd mundi fært að sjá fyrir því. Guðmann Levy taldi nauðsynlegt að hefja samskot. Engin önnur leið væri möguleg. Tæki fólk ekki vel þessari aðferð til fjársöfnunar væri málið þegar dauðadæmt. Sveinn Thorwaldson taldi málið vanhugsað af þorra

manna og ekki nógu vel undirbúið til afgreiðslu á þessu stigi. Ásm. Jóh. tók enn til máls og lagði áherslu á tvent (1) Tilboð hans um $25.00 gjöf í söguritunarsjóð væri því skilyrði bundið að ekki væri snert við sjóð félagsins til fjárveitingar í þessu máli; (2) að Þjóðræknisfélagið beri enga ábyrgð á högum söguritara, hann sé nú að vinna upp á eigin ábyrgð, þar sem honum hafi verið tilkynt að hann gæti enga borgun fengið frá 1. des. s.l. og gæti hann því ekki skoðað sig í þjónustu félagsins frá þeim degi. Alla áherslu beri að leggja á það að fá nægilegt reksturfsfé til að sjá fyrirtækinu borgið, og vanda næstu bók svo sem unt er. Hjörtur Hjaltalín taldi samskotaleiðina óviðkunnanlega. Fyrst væri fólkið beðið að gefa til bókafyrirtækisins, og svo yrði það aftur beðið að kaupa það, sem það hefði áður gefið til. Hitt væri skynsamlegra, taldi ræðumaður, að selja bókina fyrirfram. Haraldur Ólafsson gjörði fyrirspurn um það hve mörg bindi þessa ritverks væri fyrirhuguð. Svaraði ritari sögunefndar því að fjögur bindi mundu nauðsynleg til að ná yfir flest það, sem mest er um vert í sögu Vestur-Íslendinga. Jón Húnfjörð var hræddur við að taka úr sjóði Þjóðræknisfélagsins vegna þess að þá kynni hvorutveggja að fara á höfuðið, fyrst Þjóðræknisfélagið sjálft og svo söguritunar fyrirtækið. S. S. Laxdal gjörði tillögu um að 1. liður nefndarálitsins væri samþyktur. Var tillagan studd af J. Húnfjörð og samþykt. Nikulás Ottenson lofaði $10.00 til söguritunar með sömu skilyrðum og Á. P. Jóh. hafði áður gjört; lýsti hann því auk þess að hann mundi hjálplegur með innsöfnun í sjóðinn ef til kæmi og einnig með lán heimilda fyrir söguritarann í starfi hans. Áður en tillagan var borin upp, kvaddi Dr. Sig. Júl. Jóh. sér hljóðs og taldi þá leið, sem hér ætti að greiða atkvæði um, samskotaleiðina, sama og að hætta við söguritunina um óákveðinn tíma. Ólafur Pétursson bar nú fram viðaukatillögu á þessa leið: Þingið felur framkvæmdarnefndinni og söguritunarnefndinni að taka alt að $300.00 að láni í banka eða úr sjóði Þjóðræknisfélagsins til að greiða söguritara í bili. Skal lánsfé þetta endurgreitt til félagsins af væntanlegu samskotafé svo skjótt sem nægilega mikið fé hefir safnast til þeirrar greiðslu." Dr. Sig. Júl. Jóh. dró nú minni hluta álit sitt til baka og studdi tillögu Ólafs Péturssonar. Á. P. J. vildi ekki taka þessa viðaukatillögu með aðal nefndarálitinu. Taldi hann söguritarann óráðinn, og gat þess enn að félagið bæri ekki ábyrgð á starfi því, sem hann kynni nú að stunda. Ólafur Pétursson taldi það óheppilegt að alt það fé sem til söguritarans kæmi í sambandi við þetta mál væri úti látið "með hangandi hendi og af illum huga," taldi hann það litla hvöt fyrir söguritarann í starfi hans. Taldi hann áhættulaust fyrir félagið að lána þessa upphæð, en það yrði að fá leyfi þingsins til þess að heimila slíkt lán, sem tillaga sín færi fram á. Lagði hann spurningu fyrir ritara, og fyrrum formann sögunefndar hvort söguritara hefði verið sagt upp vinnu 1. desember. Svaraði ritari á þá leið, að bréf hefði verið sent söguritara þess efnis að ekki yrði hægt að gjalda honum kaup eftir 1. desember 1940. Taldi hann félagið ekki lagalega skuldbundið söguritara frá þeim degi, en vegna þess að kunnugt væri að hann hefði haldið áfram starfi sínu þrátt fyrir þá tilkynning frá sögunefndinni taldi hann félagið vera honum siðferðilega skuldbundið. Séra G. Árnason taldi óþarft að ræða þetta mál frekar, nefndunum tveim, sögu- og framkvæmdarnefnd bæri að sjá um útvegun hins nauðsynlega fjár. Skrifari lagði til að þessum orðum skyldi bætt framan við 1. lið nefndarálitsins: "Að framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins, og . . ." Var þessi viðbót viðtekin af framsögumönnum nefndarálitsins. Var enn rætt allengi um þetta atriði, og eins það hvorri tillögunni bæri forgangsréttur til þingsályktunar, upphaflegu grein nefndarálitsins, eða viðaukagrein Ólafs Péturssonar. Úrskurðaði forseti að viðaukatillagan skyldi fyrst borin upp. Var úrskurður hans staðfestur af þingheimi. Var viðaukatillagan þá borin upp og samþykt. Fyrsti liður einnig samþyktur með áorðinni breyting.

Var þá tekinn fyrir 2. liður nefndarálitsins. Á. P. J. lagði til að honum sé slept, vegna þess að hann sé nú óþarfur orðinn. Var tillagan studd af Árna Eggertssyni og samþykt.

Þriðji liður var tekinn til athugunar. Gísli Jónsson gjörði svohljóðandi breytingartillögu við þennan lið, sem skrifari studdi:

Að í stað 3. liðar í nefndarálitinu komi:

Sé kosin 9 manna söguútgáfunefnd til eins árs, er starfi í samráði með og sé ábyrgðarfull til stjórnarnefndar félagsins,

og hafi hún ekki leyfi til að bæta við sig fleiri nefndarmönnum.

Var till. rædd af ýmsum. Séra G. Á. benti á að deildar meiningar hefði komið fram um það hvort sögunefndin væri standandi nefnd, sem hefði málið með höndum eins lengi og það væri á dagskrá þingsins, eða hvort hún væri aðeins milliþinganefnd. Vildi hann fá úrskurð þingsins í þessu efni. Ásm. P. Jóh. vildi að gamla sögunefndin væri endurkosin að svo miklu leyti, sem hún gefur kost á sér. Grettir konsúll Jóhannson gjörði tillögu þess efnis að þessu máli sé frestað til næsta fundar vegna þess að eftirlitsmaður hússins krefjist þess að salurinn sé rýmdur samstundis til undirbúnings undir skemtiskrá þá, sem fyrirhuguð er að kvöldi. Till. studdi Guðm. Levy og var hún samþykt.

Tilkynning kom til þingsins um að séra Sigurður Ólafsson gæti ekki komið til þings, en hann á sæti í útnefningarnefnd. Var séra Egill H. Fáfnis kosinn í hans stað og tók hann þegar sæti í nefndinni.

Var fundi því næst frestað til kl. 9:30 næsta dag samkvæmt till. Guðm. Levy og Arnljótar Ólson.

## SJÖTTI FUNDUR

Sjötti fundur þingsins var settur á miðvikudagsmorguninn kl. laust eftir 10 f. h. Fundarbók síðasta fundar var lesin og samþykt. Formaður kjörbréfanefndar, Ásmundur J. Jóhannsson lýsti því yfir að til þings væri kominn fulltrúi frá deildinni "Fjallkonan" í Wynyard, Mr. E. Ragnar Eggertson, er færi með 16 atkvæði þeirrar deildar. Var hann boðinn velkominn af forseta. Ávarpaði hann þingið nokkrum orðum, og lagði fram skýrslu frá deild sinni er skrifari las:

### Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Fjallkonan" fyrir árið 1940

Íslendingadagur eða þjóðhátíðar samkoma var haldin 2. ágúst, og var að því frábrugðin fyrri venju að enginn aðgangur var seldur.

Aðalræðumaður dagsins var Dr. Beck. Var máli hans mjög vel tekið. Auk hans töluðu Dr. J. A. Bíldfell, forseti deildarinnar, Sigurður Johnson, vara-forseti og Jón Johannson.

Íslenzkir söngvar voru sungnir undir forustu Mrs. Sigríðar Thorsteinson.

Aðsókn var góð og leikur enginn vafi á því að þeir, sem sóttu samkomuna, margir hverjir, nutu betri skemtunar en oft áður hefir átt sér stað, á slíkum samkomum, sem haldnar hafa verið hér.

Blærinn yfir öllu hátíðahaldinu var íslenskari en oft áður hefir átt sér stað. Ástæðurnar fyrir því eru ef til vill hin ágæta ræða Dr. Becks og umhverfi samkomunnar sem var hið aðlaðandi heimili Mr. og Mrs. Jón Jóhannsson.

Um kveldið var Dr. Beck haldið samsæti hjá Dr. og Mrs. Bíldfell og var þangað boðið embættismönnum deildarinnar og ýmsum öðrum.

Á meðan Dr. Beck dvaldi hér heimsótti hann nokkur íslensk heimili auk fyrirlesturs, sem hann flutti í íslensku kirkjunni. Dr. Beck flutti erindi sitt á ensku og beindi máli sínu mest að yngra fólkinu og var besti rómur gerður að ræðu hans.

Á árinu hefir deildin átt á bak að sjá tveimur af sínum beztu meðlimum, þeim séra Jakob Jónssyni, sem fór alfarinn til Íslands og Dr. J. A. Bíldfell, sem nú er norður á Baffinslandi.

Meðlimir deildarinnar eru 48.

$39.00 virði af íslenskum bókum hefir verið keypt á árinu.

Frekari upplýsingar viðvíkjandi starfsemi okkar mun Mr. Eggertsson gefa þinginu.

Vinsamlegast,

Gísli Benedictson, ritari.

Var þá tekin til umræðu breytingartillaga Gísla Jónsonar vara-forseta frá kvöldinu áður um að kjósa 9 manna sögunefnd til eins árs, skyldi hún ekki hafa rétt til að bæta við sig. Urðu nú aftur fjörugar og vingjarnlegar umræður um málið í heild sinni. Lýstu öll ummæli þingmanna hlýhug þeirra og áhuga fyrir málinu. Mrs. Hannes Lindal kom fram fyrir þingheim og flutti vandaða og vel hugsaða hugvekju um málið. Var máli hennar vel tekið af þingheimi. Aðrir, sem nú tóku til máls voru þeir Ásmundur P. Jóhannsson, séra Rúnólfur Marteinsson, Nikulás Ottenson, Fred Swanson og Guðmann Levy. Gjörði hinn síðastnefndi breytingartillögu við breytingartillögu vara-forseta, þess efnis að orðin "hafi hún ekki leyfi til að bæta við sig" séu feld úr. Þessa tillögu studdi Nikulás Ottenson. Þá töluðu þeir Nikulás Ottenson, S. S. Laxdal og Mrs. H. Lindal. Var þá gengið til atkvæða um breytingartillögu Guðmanns Levy og hún samþykt. Var því næst gengið til atkvæða um hina

upphaflegu breytingartillögu Gísla Jónssonar og hún samþykt með áorðinni breyting. Var þá lesinn eftirmáli nefndarálitsins í sögumálinu, og ákveðið að fella hann úr, samkvæmt tillögu séra E. H. Fáfnis og H. Ólafssonar. Var nefndarskýrslan síðan með áorðnum breytingum samþykt í heild sinni.

Þá bar vara-forseti fram tillögu um að hin gamla sögunefnd sé endurkosin með þeirri breyting að séra Guðmundur Árnason komi í stað séra Jakobs Jónssonar, sem horfinn er heim til Íslands. Ritari baðst undan endurkosningu í nefnd þessa annríkis vegna. Var afsökun hans tekin til greina samkvæmt tillögu Guðmanns Levy og S. S. Laxdal. Fór forseti þá nokkrum vingjarnlegum orðum um starf ritara í þágu sögumálsins, en hann hafði í tvö undanfarin ár verið formaður nefndar þeirrar, er hafði það mál með höndum. Vara-forseti lagði til að Ásm. P. Jóhannsson taki sæti í sögunefndinni, en hann afsakaði sig frá þeirri útnefning. Dr. Sig. Júl. Jóhannesson stakk upp á séra Philip Pétursson, og var hann tilnefndur. Séra Egill H. Fáfnis og Thor Marvin lögðu til, að frekari útnefningum og kosningu í sögunefnd skuli frestað þar til kosning embættismanna hefði farið fram eftir hádegi þess sama dags. Var sú tillaga samþykt.

Var þá aftur vikið að 6. lið á dagskrá: Skýrslum deilda. Las Sveinn Thorwaldson þá skýrslu frá deildinni "Ísafold" í Riverton:

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Ísafold", Riverton, Man., 1939-40**

Þjóðræknisdeildin "Ísafold" í Riverton, Man. varð árs gömul 23. nóv. 1940, svo um mjög mikið starf er ekki að ræða enn sem komið er. Tildrög að stofnun deildarinnar áttu þeir Dr. R. Beck, Ásm. P. Jóhannsson og séra V. J. Eylands. Fyrirlestrafund sinn héldu þeir 17. okt. 1939. Á þeim fundi var S. Thorwaldson, M.B.E., kosinn forseti, og svo kaus hann sér bráðabirgðarnefnd til að athuga möguleika til að stofna deild hér. Starfsfundinn sóttu um fjörutíu manns og eftir nokkrar umræður var ákveðið að stofnuð skyldi deild. Voru þessir kosnir í stjórnarnefnd:

Forseti ................S. Thorwaldson, M.B.E.
Vara-forseti ....................Jón Sigvaldason
Ritari .....................Kristín S. Benedictson
Vara-rit. ............................Laura Eyjólfson
Fjármálarit. ....................Eysteinn Árnason
Vara-fjármálarit. ....Magnús E. Johnson
Skjalavörður....Guttormur J. Guttormsson

Starfið hefir gengið vonum framar vel. Fimm opnir starfsfundir og nokkrir stjórnarnefndarfundir, hafa verið haldnir á árinu. Að félagsmálum loknum hefir farið fram skemtiskrá, og svo verið bornar fram al-íslenskar veitingar. Hafa flestir þessir fundir verið vel sóttir. Deildin er öllum þeim, sem skemt hafa mjög þakklát, og vil eg sérstaklega minnast á séra E. J. Melan og Guttorm skáld Guttormsson. Sá fyrnefndi sagði tvisvar sinnum ágrip af Íslendingasögum (Njálu og Laxdælu), sem var mjög vel tekið; sá síðarnefndi sagði ferðasögu um Chicago-för sína á síðastliðnum vetri, og var það mjög góð skemtun. Svo var afmæli deildarinnar haldið hátíðlegt 21. nóv. 1940. og flutti þá herra Ásm. P. Jóhannsson, byggingameistari, langt og skemtilegt erindi um Ísland og Íslandsferð sína á síðastliðnu sumri. Eldra fólkið fluttist í anda til gamla ættlandsins, en unga fólkið hlaut mikið fullkomnari mynd af landi feðra sinna. G. J. Guttormsson þakkaði komumanni fyrir skemtunina, og vil eg endurtaka það þakklæti hér. Meðlimum deildarinnar "Esjan" í Árborg var boðið að sækja þessa hátíð og voru nokkrir þaðan viðstaddir. Meðlimum deildarinnar "Ísafold" var boðið til Árborg 14. maí s.l. til að sækja skemtifund, sem deildin "Esjan" stofnaði til. Væri mjög vel til fallið að svoleiðis samband mætti eiga sér stað í framtíðinni.

Á fundinum, sem haldinn var 12. febrúar 1940, var deildinni send mynd af Matthíasi Jochumssyni, og einnig gefnir $10.00 sem brúkaðir skyldu í verðlaun til að safna nýjum meðlimum, hvorutveggja af velunnurum deildarinnar.

Íslensku-kenslu málið var rætt nokkrum sinnum, en sökum þess að ekki höfðu verið fáanlegar hæfilegar kenslubækur, var ekki byrjað á laugardagsskóla fyr en 9. nóv. 1940. Hafði þá forseti fengið töluvert af bókum, frá Þjóðræknisfélaginu. Þar sem daglega skólahúsið hefir ekki verið fáanlegt, hefir húsplássið verið frekar óhentugt, en aðsókn hefir verið ágæt, og eru á milli 70 og 80 börn innrituð og sýna þau mikinn áhuga. Fimm kennarar starfa við skólann og eru þessir: S. Thorwaldson, Kristín S. Benedictson, E. Árnason, Svava Einarsson og Marino Elíasson. Sá síð-

astnefndi kennir íslenska söngva. Öllum nemendum skólans voru gefin stríðssparnaðar skírteini og eitt frímerki, þegar skólinn byrjaði aftur eftir nýárið. Um áramót er meðlimatala 38 fullorðnir, að heiðursfélaga meðtöldum, og tólf börn og unglingar. Alls 50 meðlimir.

Er hér með sent gjald það, er deildinni ber að borga, sem er $18.75. Féhirðir sendir ekki skýrslu að þessu sinni, þar sem inntektir hafa aðeins verið meðlimagjöld.

Kristín S. Benedictson, ritari.

Riverton, Man. 15. febr. 1941.

Rev. V. J. Eylands,
ritari Þjóðræknisfél.,
776 Victor St., Winnipeg, Man.

Kæri Mr. Eylands,

Eg sendi þér hér með ársskýrslu deildarinnar "Ísafold" í Riverton, Man. fyrir árið 1940. Þessi skýrsla hefði átt að sendast miklu fyr, en ársfundi var frestað fyrir jólin vegna þess hvað fáir voru þá á fundi, og ársfundur var ekki haldinn fyr en 12. febrúar 1941.

Nýja starfsnefndin er þessi:

Forseti ................S. Thorwaldson, M.B.E.
Vara-forseti .................... G. Sigmundson
Skrifari ................Kristín S. Benedictson
Vara-skrifari ......................Gestur Vidal
Féhirðir .........................Eysteinn Árnason
Vara-féhirðir ....................Jón Sigvaldason
Skjalavörður ...............Séra E. J. Melan

Nú gefum við öllum meðlimum, sem borga gjöld sín félagaspjöld.

Ef skýrslan kemur of seint fyrir Tímaritið, les frú Ólafía Melan, annar erindreki héðan, hana á þinginu.

Með bestu óskum um ánægjulegt þjóðræknisþing.

Vinsamlegast,
Kristín S. Benedictson, ritari.

Var skýrslan viðtekin með þakklæti, samkvæmt tillögu Ásmundar P. Jóhannssonar og Ara Magnússonar.

Mrs. S. E. Björnsson lagði fram skýrslu **Útbreiðslumálanefndar** í sex liðum:

**Álit útbreiðslunefndar**

Við undirrituð, sem valin voru til þess að semja ofangreint álit til athugunar þingsins leyfum okkur að leggja til:

1. Þingið lýsir ánægju sinni yfir því mikla og góða starfi, sem að forseti Þjóðræknisfélagsins og stjórnarnefndin í heild sinni hefir unnið á síðastl. ári í sambandi við útbreiðslumál félagsins.

2. Að stjórnarnefndinni sé falið að kjósa fimm manna nefnd, tvo úr nefndinni og þrjá frá deildum, til þess að stuðla að og taka þátt í gagnkvæmum heimsóknum deilda á þessu starfsári, sem nú fer í hönd.

3. Þingið lýsir yfir þakklæti sínu til íslensku blaðanna fyrir útbreiðslustarf þeirra.

4. Að þingið endurnýi þá ákvörðun, sem tekin var á síðasta þingi að sem mest sé frætt um það besta og heillaríkasta í þjóðlífi Íslands á vorri öld, og að sú fræðsla fari fram með eins mikilli fjölbreytni og mögulegt er: t. d. kvikmyndasýningum og málverkasýningum.

5. Þingið vill leggja aukna áherslu á íslensku kenslu og æfingar í íslenskum söngvum hvar sem því verður við komið, og felur stjórnarnefndinni að vinna að því máli að svo miklu leyti sem unt er.

6. Þingið óskar þess að stjórnarnefndin beiti sér fyrir aukinni samvinnu milli deilda og lestrarfélaga í bygðunum; ef unt er að koma í framkvæmd samstarfi milli ofangreindra félaga.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg
25. febrúar, 1941.

Marja Björnson
Gísli Sigmundson
S. S. Laxdal
Thorarin Marvin
B. Dalman.

Guðmann Levy og Gunnbjörn Stefánsson lögðu til að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir lið. Var tillagan samþykt. Fyrsti liður var samþyktur samkvæmt tillögu Dr. S. E. Björnsons og Elíasar Elíassonar; forseti vék úr sæti sínu og ræddi annan lið, og var hann síðan samþyktur samkvæmt tillögu H. Hjaltalíns og B. Thorwaldsons.

3., 4., 5. og 6. liður voru síðan lesnir hver fyrir sig og samþyktir umræðulaust. Var nefndarálitið síðan í heild samþykt, og málið þannig afgreitt af þinginu.

Þingheimi var á það bent, að frumsýning myndarinnar "The People of Canada" færi fram í Tivoli leikhúsinu kl. 4 e. h þennan dag, og þinginu væri boðið að senda tvo fulltrúa til að sækja sýning þessa. Ritari og séra Guðmundur Árnason lögðu til að séra Egill H. Fáfnis og Ragnar H. Ragnar séu tilnefndir til að sækja sýning þess; var það samþykt. Var nú komið að hádegi, og fundi því frestað til kl. 1.30 síðdegis, samkvæmt tillögu Ásm. P. Jóhannssonar og S. S. Laxdal.

SJÖUNDI FUNDUR

Sjöundi þingfundur var settur laust eftir kl. 1:30 s. d. Fundargjörningur árdegis fundar var lesinn og samþyktur. Séra Guðmundur Árnason lagði fram álit um samvinnumál við Ísland, í fjórum liðum:

**Nefndarálit í samvinnumálinu**

Nefndin leyfir sér að leggja fyrir þingið eftirfylgjandi álit og tillögur:

I.

Nefndin lýsir ánægju sinni yfir því, að þrír merkir Vestur-Íslendingar, ásamt konum sínum, hafa heimsótt Ísland sem gestir Þjóðræknisfélags Íslands og Eimskipafélagsins á síðastliðnu ári. Þessir menn eru: Gunnar Björnsson, sem var gestur Þjóðræknisfélagsins, og þeir Árni Eggertson og Ásm. P. Jóhannsson, sem voru gestir Eimskipafélagsins. Skoðar hún þessar heimsóknir sem mikilvægan þátt í samvinnu Íslendinga austan hafs og vestan.

II.

Einnig stunda fleiri íslenskir námsmenn nú nám við háskóla í Canada og Bandaríkjunum en nokkru sinni fyr. Má skoða þá alla sem fulltrúa íslensku þjóðarinnar hér vestra. Vill nefndin leggja til að þingið lýsi ánægju sinni yfir því, að tveir þessara manna, þeir Þórhallur Ásgeirsson og Dr. Friðgeir Ólason flytja erindi á þessu þingi; og leggur hún til, að stjórnarnefnd félagsins geri alt, sem hún getur, til þess að gera þessum mönnum dvölina hér vestra ánægjulega, og greiði götu þeirra á allan hátt, sem hún getur og þeir kunna með að þurfa.

III.

Viðvíkjandi tillögum og bendingum, sem felast í meðfylgjandi bréfi frá stjórn Þjóðræknisfélags Íslendinga til stjórnarnefndar Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga, dagsett 27. jan. 1941, vill nefndin benda á, að flestar þeirra eru þess eðlis, að þurfa að athugast rækilega. Vill nefndin leggja til að stjórnarnefndin taki þessar bendingar til íhugunar og reyni að hagnýta þær, eftir því sem unt er. Sérstaklega vill þó nefndin leggja til að tilboði hr. Steingríms Arasonar, sem nú er í New York, um að ferðast meðal Vestur-Ísl. og flytja fyrirlestra og sýna hreyfimyndir frá Íslandi, ef kringumstæður hans leyfa, sé gaumur gefinn, eftir því sem nefndin sér sér fært að styrkja hann til fararinnar, beinlínis eða óbeinlínis.

IV.

Viðvíkjandi ósk Þjóðræknisfélags Ísl. um að send verði 300—400 af Tímaritinu, til útbýtingar meðal meðlima félagsins, vill nefndin skora á stjórnarnefndina, að verða við þessu, ef mögulegt er, og jafnvel að auka upplagið, ef nauðsyn krefur, þó að það hafi nokkurn aukakostnað í för með sér.

Dagsett 26. febrúar 1941.

Guðm. Árnason
Árni Eggertson
S. Thorvaldson
G. L. Jóhannson
Ó. Pétursson.

Jóhannes Húnfjörð og Ásm. P. Jóhannsson lögðu til að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir lið. Var það samþykt.

Fyrsti liður var lesinn og samþyktur; annar liður sömuleiðis.

Þriðji liður var lesinn og ræddur af þeim Ásm. P. Jóhansson og Elías Elíasson. Lögðu þeir til að nafni Vigfúsar Sigurgeirssonar sé bætt inn í þennan lið, og tilboð hans athugað af stjórnarnefndinni. Var síðan samþyktur með téðri breyting. Fjórði liður var síðan lesinn og samþyktur, og að síðustu nefndarálitið í heild sinni.

Árni G. Eggertson, K.C. reifaði **Stríðs sparnaðar skírteina málið.** Kvað hann takmark stjórnarinnar að safna 2 miljónum dala í Canada til þessara þarfa, af þeirri upphæð væri Manitoba-fylki ætlað að safna $520,000. Kvað ræðumaður það vaka fyrir nefnd þeirri, er þetta mál hefir með höndum að safna eins mörgum áskriftum og unt væri. Kvað hann Íslendinga hafa tækifæri til að sýna á þennan hátt áhuga sinn fyrir þeim málstað, sem hér væri um að ræða. Hugmyndin væri að safna $500.00 á meðal Íslendinga á þessum slóðum. Forseti þakkaði ræðumanni erindi hans og fræðslu um þetta mál.

Var nú kominn tilsettur tími fyrir kosningar embættismanna, og það atriði því tekið fyrir. Mrs. H. Lindal gjörði fyrirspurn um það hvort henni mundi heimilt að fara með 7 atkvæði frá Icelandic Junior League. Framsögumaður kjörbréfanefndar taldi þetta ekki hægt, lögum samkvæmt. Las skrifari þá, samkvæmt tilmælum forseta, 21. grein aukalaga félagsins sem fjallar um kjörgengi fulltrúa.

Séra Guðmundur Árnason lagði fram **skýrslu útnefninganefndar**, á þessa leið:

Útnefningarnefndin mælir með eftirfylgjandi mönnum í embætti fyrir komandi ár:

Fors.—Dr. Richard Beck
Vara-fors.—Gísli Jónsson
Ritari—séra Valdimar J. Eylands
Vara-rit.—Páll S. Pálsson
Féhirðir—Árni Eggertsson
Vara-féh.—Ásm. P. Jóhannsson
Fjármálar.—Guðmann Levy
Vara-fjármálar.—Sveinn Thorvaldsson
Skjalavörður—Ól. Pétursson
Endurskoð.—Grettir L. Jóhannsson.

Dagsett 26. febr. 1941.

G. L. Jóhannsson
E. H. Fáfnis
E. H. Fáfnis
G. Árnason.

Sömuleiðis var Grettir konsúll Jóhannsson útnefndur af nefndinni sem yfirskoðunarmaður fyrir næstu tvö ár.

Ólafur Pétursson og Arnljótur Ólson lögðu til að útnefningu til forseta embættis sé lokið. Var tillagan samþykt í einu hljóði. Lýsti vara-forseti, Gísli Jónsson, þá núverandi forseta Dr. Richard Beck rétt kosinn til forseta fyrir næsta ár. Var þeirri tilkynning tekið með lófaklappi af þingheimi.

**Gísli Jónsson** hafði verið útnefndur til vara-forseta af nefndinni. Ari Magnússon og Gísli Sigmundson tilnefndu **Dr. S. E. Björnson**; J. Húnfjörð og Elías Elíasson tilnefndu **Ásmund P. Jóhannsson**; Ásmundur P. Jóhannsson og S. S. Laxdal tilnefndu **séra Valdimar J. Eylands.** Hjörtur Hjaltalín og Guðmann Levy lögðu til að útnefningum til varaforseta embættis skyldi lokið. Var tillagan samþykt.

Var nú gengið til atkvæða um varaforsetaembættið. Forseti tilnefndi sem teljara þá: Guðmann Levy, Árna G. Eggertson, Egil H. Fáfnis og Philip Pétursson.

Grettir konsúll Jóhannsson lagði fram til þingsályktunar: That the Icelandic League of Am. in convention assembled instruct its Secretary to write letters of appreciation to the Winnipeg Free Press and The Winnipeg Tribune for courteous reportings and generous display of the proceeding and doings of this convention."

Var þingsályktunartillaga þessi samþykt, samkvæmt tillögu framsögumanns og Árna Eggertssonar. Teljarar lýstu því nú að enginn hefði verið kosinn til varaforseta í fyrstu umferð kjörseðla. Grettir L. Jóhannsson og Dr. Sveinn Björnson lögðu til að sá sem fæst atkvæði hefði hlotið, falli úr við næstu umferð. Var það samþykt. Var þá aftur gengið til atkvæða um þá. Gísla Jónsson, Svein Björnson og Valdimar J. Eylands.

Á meðan talning atkvæða fór fram kvaddi forseti sér hljóðs og þakkaði aðstoðar-féhirðir í sambandi við ágætt starf hans í þágu Tímarits félagsins. Var tekið undir það með því að allir stóðu á fætur, samkvæmt tillögu Elíasar Elíassonar. Flutti aðstoðar féhirðir Ásmundur P. Jóhannsson þinginu ávarp. Hvatti hann félagsmenn til að láta auglýsendur njóta viðskifta sinna að öðru jöfnu, og láta þá á þann hátt vita að stuðingur þeirra sé að nokkru metinn. Kvað hann $2,077.00 hafa komið inn fyrir auðlýsingar í þetta sinn, en $1855.00 á síðastliðnu ári. Var þessum upplýsingum tekið með miklu lófaklappi af þingheimi.

Komu nú talningamenn aftur með þá tilkynning að enginn hefði enn hlotið nauðsynlegan meiri hluta til varaforseta kosningar. Samkvæmt áðurnefndri tillögu um atkvæðafjölda kandidatanna, voru nú eftir í kjöri þeir Gísli Jónsson og Dr. Sveinn E. Björnson. Árni G. Eggertson, K.C., kvað tilhlýðilegt að þingsályktunartillaga væri samin til að þakka hermönnunum starf þeirra. Lagði hann því næst fram eftirfylgjandi tillögu:

Resolved, that the Icelandic National League of America expresses its deep and heartfelt appreciation to all members of His Majesty's forces serving in Canada and overseas and sends its greetings.

Var tillagan samþykt með því að allir stóðu á fætur.

Las Ásmundur P. Jóhannsson þá skýrslu fjármálanefndar þingsins:

Fjármálanefndin hefir yfirfarið endurskoðaðar skýrslur embættismanna Þjóðræknisfélagsins og finnur ekkert við þær að athuga og leggur til að þær séu viðteknar og samþyktar eins og þær liggja fyrir.

Á þingi Þjóðræknisfél. 26. febr. 1941.

Á. P. Jóhannsson
Ó. Pétursson
S. Thorvaldson.

Var skýrsla þessi samþykt samkvæmt tillögu framsögumanns og J. Húnfjörðs.

Talningamenn komu nú fram með þá

tilkynning að Dr. Sveinn Björnson hefði hlotið meiri hluta atkvæða til varaforseta embættisins. Var hann þá lýstur rétt kjörinn vara-forseti. Þá lá fyrir kosning ritara. Útnefninganefnd hafði tilneft séra Valdimar J. Eylands. Arnljótur Ólson og Fred Swanson lögðu til að útnefning skyldi lokið. Var tillagan samþykt í einu hljóði. Var ritari því lýstur endurkosinn til þess embættis. Til vararitara hafði verið tilnefndur Páll S. Pálsson. Fred Swanson og Ari Magnússon tilnefndu Dr. Sig. Júl. Jóhannesson. Var útnefningum til þessa embættis þá lokið samkvæmt tillögu frá Arnljóti Olson. Var þá gengið til atkvæða um þá Pál S. Pálsson og Dr. Sig. Júl. Jóhannesson til skrifara embættis.

Á meðan á kosningu stóð, lagði Mrs. Einar Páll Jónsson fram álit fræðslumálanefndar í fjórum liðum:

**Álit fræðslumálanefndar**

Nefndin leggur til að eftirfarandi tillögur séu samþyktar:

1. Þingið telur kenslu í íslenskri tungu, sögu, bókmentum og söng, meginþættina í vernd og viðhaldi þjóðernis vors í Vesturheimi og mælir eindregið með því að stjórnarnefnd styðji eftir föngum fræðslu í þessum greinum.

2. Þingið felur stjórnarnefnd að leita aðstoðar fræðslumálastjóra Íslands um útvegun hentugra íslenskra kenslubóka og lesbóka. Þeir kennarar, sem fást við íslensku kenslu hafa látið í ljósi hve mjög það hamli kenslunni að hafa ekki hentugar lesbækur, sem flokkaðar væru samkvæmt kunnáttustigi barnanna á líkan hátt og ensku lesbækurnar í barnaskólunum. Það dregur úr áhuga barnanna fyrir lærdómnum, ef þau lesa altaf í sömu bókinni; þeim finst þá að þau séu ekki að ná neinum framförum. Við höfum hugmynd um að lesbókum í barnaskólum á Íslandi sé útbýtt ókeypis til barnanna. Það mætti því ef til vill fá þær ódýru verði, ef leitað væri aðstoðar fræðslumálastjóra Íslands. Þessi tillaga hefir oft komið fram á þingi áður, en hefir borið lítinn árangur. Þingið mælist því eindregið til að hún verði tekin alvarlega til greina af stjórnarnefnd og sýndur verði virkur áhugi fyrir þessu máli.

3. Þingið álítur að það myndi hafa mikil áhrif á framtíð þessa máls, að fá Steingrím Arason til þess að ferðast um íslenskar bygðir á þeim tíma sem íslenskir skólar eru starfræktir til þess að vekja áhuga og stuðla að frekari skipulagningu kenslustarfsins. Steingrímur Arason hefir samið og gefið út margar ágætar lesbækur fyrir börn og unglinga og hefir verið kennari við kennaraskólann í Reykjavík í mörg ár. Hann er því ef til vill einn sá færasti maður, sem völ er á til þess að skipuleggja kenslustarfsemina. Þingið beinir því þeim tilmælum til stjórnarnefndar, að hún rannsaki hvert mögulegt sé að fá Steingrím Arason hingað norður meðan hann er hér vestan hafs.

4. Þingið vottar innilegt þakklæti sitt öllum þeim, sem unnið hafa að íslensku kenslu, ennfremur Bandalagi lúterskra kvenña fyrir það verk, sem það hefir gert í sambandi við samkepni í framsögn íslenskra ljóða og síðast en ekki síst vill þingið þakka Ragnari H. Ragnar fyrir hans ágæta söngkenslustarf í þágu íslenskrar æsku.

26. febrúar 1941.

Ingibjörg M. Jónsson
H. Ólafsson
Einar Magnússon
Gunnar Sæmundson.

Ari Magnússon og Dr. S. E. Björnson lögðu til að nefndarálitið sé viðtekið í heild sinni. Var það samþykt og málið þannig afgreitt af þinginu.

Þá lagði Gunnbjörn Stefánsson fram bókasafnsskýrslu í þremur liðum:

**Nefndarálit bókasafnsnefndar.**

1. Að deildin "Frón" sé beðin að semja skrá yfir þær bækur, sem safnið á fleiri en eitt eintak af.

2. Að verðmætar gamlar bækur, sem safnið á og kynnu að berast því séu eigi gefnar til hins íslenska bókasafns Manitoba Háskólans né neinna annara stofnana á meðan bókasafnið er starfrækt af deildinni "Frón."

3. Vér teljum það mikla þörf, að bætt sé við safnið nýjum bókum. Að Þjóðræknisfél. heimili bókasafni "Fróns," eins og að undanförnu, að kaupa bækur frá Íslandi fyrir þá peninga, sem inn koma fyrir sölu á Tímaritinu heima á Íslandi.

G. Stefánsson
H. T. Hjaltalín
Bergth. Thorvardson.

Sveinn Pálmason og Nikulás Ottenson lögðu til að skýrslan sé samþykt í einu lagi. Ásmundur P. Jóhannsson og J. Húnfjörð gjörðu breytingartillögu um að skýrslan sé tekin fyrir lið fyrir lið. Var breytingartillagan samþykt.

Fyrsti liður var lesinn og samþyktur í einu hljóði.

Annar liður var lesinn og ræddur um hríð. Ásmundur P. Jóhannsson og Friðrik Kristjánsson gjörðu breytingartillögu um að þetta ákvæði nái aðeins til eins árs. Ólafur Pétursson og Arnljótur Olson gjörðu breytingartillögu við breytingartillögu að þessi liður sé feldur úr. Urðu nú enn umræður um málið og tóku þessir til máls: Séra Guðm. Árnason, Gunnbjörn Stefánsson, Á. P. Jóhannsson, Sveinn Pálmason og séra Rúnólfur Marteinsson. Var loks borin upp breytingartillaga Ólafs Péturssonar um að sleppa umræddum lið úr nefndarálitinu. Var hún samþykt.

Þriðji liður var lesinn og ræddur. Ákveðið var að vísa þessum lið til fjármálanefndar, samkvæmt tillögu Á. P. Jóhannssonar og J. Húnfjörðs. Nefndarskýrslan síðan samþykt með áorðnum breytingum.

Teljarar gáfu nú þá skýrslu að Dr. Sig. Júl. Jóhannesson hefði hlotið meirihluta atkvæða til varaskrifara embættis. Var hann því lýstur rétt kjörinn til þess embættis.

Til féhirðis hafði verið útnefndur Árni Eggertson. Var hann kosinn gagnsóknarlaust. Varaféhirðir var kosinn Ásmundur P. Jóhannsson gagnsóknarlaust. Guðmann Levy var kosinn fjármálaritari gagnsóknarlaust. Sveinn Thorvaldson, M.B.E., var kosinn varafjármálaritari gagnsóknarlaust. Ólafur Pétursson var kosinn skjalavörður gagnsóknarlaust. Grettir L. Jóhannsson var kosinn yfirskoðunarmaður til tveggja ára án gagnsóknar.

Guðmann Levy lagði fram skýrslu útgáfunefndar:

**Álit útgáfunefndar**

1. Útgáfunefnd leggur til að Tímarit Þjóðræknisfélagsins sé gefið út á næsta ári í svipuðu formi og það sem verið hefir.
2. Að framkvæmdarnefndinni sé falið að ráða ritstjóra þess, og sjá að öðru leyti um útgáfu þess.
3. Þingið vottar auglýsingasafnanda, hr. Á. P. Jóhannssyni þakklæti sitt fyrir framúrskarandi dugnað við söfnun auglýsinga í síðasta hefti Tímaritsins.
4. Þar sem nóg upplag er til að "Baldursbrá," leggur nefndin til að áhersla sé lögð á að selja það, áður en ráðist er í frekari útgáfu.

Guðmann Levy
Mrs. Erickson
B. E. Johnson
C. Indriðason
Mrs. H. F. Danielsson.

Var ákveðið að taka skýrslu þessa til athugunar lið fyrir lið, samkv. tillögu Ara Magnússonar og Arnljótar Olsons.

Fyrsti liður var lesinn og ræddur af þeim Ara Magnússon, Nikulás Ottenson og H. Hjaltalín, og síðan samþyktur samkvæmt tillögu S. S. Laxdal og H. Hjaltalín.

Annar liður var lesinn. Ari Magnússon og Arnljótur Ólson gjörðu breytingartillögu við þennan lið þess efnis að þinginu sé falið að kjósa nefnd til að sjá um útgáfu Tímaritsins, ásamt ritstjóra. Breytingartillagan var borin upp og feld. Liðurinn var síðan samþyktur samkvæmt tillögu séra Guðm. Árnasonar og J. Húnfjörðs.

Þriðji liður var lesinn og samþyktur.

Fjórði liður sömuleiðis, og svo skýrslan í heild sinni.

Þá var gengið til kosninga um menn í Sögunefnd. Var samþykt að taka fyrir aftur þriðja liðinn í áliti sögunefndar þingsins. Var samþykt breytingartillaga frá Árna Eggertssyni og Thor Marvin um að 11 manna nefnd sé kosin til að hafa söguritunarmálið með höndum. Hlutu þessir kosningu:

Séra Philip Pétursson (Tilnefndur fyr á þinginu).
Séra Guðmundur Árnason (Tilnefndur fyr á þinginu).
Mrs. Hannes Lindal.
Séra Egill H. Fáfnis.
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson.
Soffonias Thorkelsson.
Sveinn Pálmason.
Einar Páll Jónsson.
Dr. Richard Beck.
Séra Rúnólfur Marteinsson.
Gísli Johnson.

Hinn síðastnefndi skoraðist síðan undan kosningu í nefnd þessa.

Í Minjasafnsnefnd voru endurkosnir Bergþór E. Johnson, Davíð Björnsson og S. W. Melsted.

Í nefnd til að safna þjóðlegum fræðum voru kosnir: séra Sigurður Ólafsson, séra Guðm. Árnason, J. J. Bíldfell, Árni Magnússon, séra Egill H. Fáfnis.

Rithöfundasjóðsnefnd var endurkosin með þeirri breyting að Gunnbjörn Stefánsson skipar sæti séra Jakobs Jónssonar.

Útnefningarnefnd var endurkosin og hana skipa: G. L. Jóhannsson, séra Egill H. Fáfnis, séra Guðmundur Árnason.

Leifs styttu nefndin var endurkosin, og skipa hana: Ásm. P. Jóhannsson, séra Guðm. Árnason og Sveinn Thorvaldson.

Var fundi síðan frestað til kl. 8 e. h.

samkvæmt tillögu Ásmundar P. Jóhannssonar og Arnljótar Olsons.

SJÖUNDI FUNDUR

Klukkan laust eftir átta var síðasti þingfundur settur. Ritari las fundarbók síðasta fundar og var hún samþykt athugasemdalaust. Var þá fundarhlé uns skemtiskrá kvöldsins hefði farið fram, samkvæmt tillögu Ásmundar P. Jóhannssonar og S. S. Laxdal. Fór því næst fram fjölbreytt skemtiskrá undir stjórn forseta. Karlakór Íslendinga í Winnipeg söng nokkur lög undir stjórn Ragnars H. Ragnar; Mrs. Irene Thorolfson spilaði á fiðlu, og Dr. Friðgeir Ólason flutti erindi um "Stefnur og strauma í íslenzku þjóðlífi." Að lokinni skemtiskrá kynti skrifari ungfrú Maríu Markan, hina víðfrægu íslenzku söngkonu, sem þá var nýkomin til bæjarins. Ávarpaði hún þingheim nokkrum orðum. Skrifari lagði þá til, samkvæmt tillögu framkvæmdarnefndar að þeir séra Rúnólfur Marteinsson og kafteinn Sigtryggur Jónasson skyldu sæmdir heiðursfélagaskírteini félagsins, hinum æðsta heiðri, sem félagið á yfir að ráða. Var tillagan studd af fráfaranda varaforseta, Gísla Jónssyni, og samþ. í einu hljóði. Forseti afhenti því næst séra Rúnólfi skírteini hans, en hann ávarpaði þingheim nokkrum vingjarnlegum orðum. Skrifari bar fram tillögu um að fela framkvæmdarnefnd afgreiðslu þeirra mála er kynnu að hafa gleymst, eða vera ólokið á þingi þessu. Var það samþykt. Sömuleiðis var ritara heimilað með tillögu varaforseta, studdri af ýmsum að færa til bókar síðasta fundargjörning. Mælti forseti þá nokkur uppörvunar og kveðjuorð til þingsins, og þakkaði þingmönnum ljúfa samvinnu. Lét hann svo slíta þingi með því að allir sungu þjóðsöngva Íslands og Canada. Lýsti hann síðan hinu tuttugasta og öðru ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi slitið.

**Richard Beck, forseti** **Valdimar J. Eylands, skrifari.**

# Athugasemd

Á blaðsíðu 58 hér að framan er þetta sagt í sambandi við Rhodesverðlaunin: ". . . hefir aðeins einn annar Íslendingur hlotið þau hér í Canada . . . og enginn annara þjóða innflytjenda sonur, *svo eg viti.*" Síðan þetta var prentað, hefir gagnfróður maður, sem hefir alt þetta á fingrum sér, bent mér á, að einn Norðmanns sonur, einn þýskur Mennóníti og að minsta kosti þrír Gyðingar hafi hlotið þennan námsstyrk. Um Júðana verður varla sagt, að þeir eigi nokkurt eitt föðurland. Þeir eru allra landa fólk, og að sumra mannfræðinga áliti fult eins mikið trúflokkur eins og kynflokkur. En hvernig sem á þetta er litið, verður eigi með sanni sagt, að Íslendingar séu vanskiftir af þessum heiðri, þegar tekið er tillit til hlutfallstölu þeirra við aðrar innfluttar þjóðir hér í landi.

Guðm. J. Jónasson
Magnús Jónasson
Kristján Kristjánsson
Kristján G. Kristjánsson
Thora Kristjánsson
Helgi Laxdal
Sigmundur Laxdal
G. A. Leifur
Sveinn Northfield
J. H. Norman
Alli Magnússon
Stefán Melsted
Haraldur Ólafsson
S. F. Ólafsson
B. F. Olgeirsson
Tryggvi Paulson
Bjarni Pétursson
Joe Peterson
Oskar Peterson
Helgi Reykdal
Rev. H. Sigmar
H. B. Sigurðsson
Mrs. Kristjana Sigurðsson
W. M. Sigurðsson
Fred Snowfield
Magnús Snowfield
J. S. Snydal
Björn Stefánsson
M. A. Thorfinnsson
Hjalti B. Thorfinnsson
Snorri M. Thorfinnsson
Th. Thorfinnsson
T. S. Thorfinnsson
Rev. N. S. Thorlaksson
Gamalíel Thorleifsson
Próf. Thomas Thorleifsson
O. K. Thorsteinsson
B. S. Thorvardsson
T. M. Thorsteinsson

"Esjan"

Árborg, Man.

Björn G. Anderson
Mrs. Gunnar Alexanderson
Miss Hildur Árnason
Einar Benjamínsson
Eiríkur Bjarnason
Mrs. Solveig Bjarnason
Björn Björnsson
Mrs. Björn Bjarnason
Miss Jóna María Björnson
Dr. S. E. Björnson
Mrs. S. E. Björnson
T. O. Björnson
Mrs. Dísa Brandson
Einar Einarsson
Tímoteus Böðvarsson
G. O. Einarsson
G. S. Einarsson
Gunnar Einarsson
K. O. Einarsson
Mrs. Dísa Eiríksson
Elías Elíasson
Sigurður Finnson
Thor Fjeldsted
Kristm. N. S. Friðfinnson
Thorarinn Gíslason
Elli Guðmundson

Guðm. S. Guðmundson
Jón Gunnarsson
Gunnlaugur Hólm
Lúlli Hólm
E. G. Ingaldson
Böðvar H. Jakobsson
Helgi B. Jakobsson
Sigmundur Jóhannson
Valdi Jóhannesson
Baldvin Jónsson
Mrs. Andrea Johnson
Miss Sella Johnson
Jónas J. Jónasson
Marteinn M. Jónasson
Thor Lífman
Jakob F. Lindal
Mrs. Guðrún Magnússon
Mrs. Kristiana Magnússon
Gestur Oddleifsson
Sr. Sigurður Ólafsson
Haraldur Pálsson
Vilhelm Pálsson
Thorgrímur Pálsson
B. M. Paulson
Mrs. Aldís Pétursson
Franklin Pétursson
Guðmundur Pétursson
Jóhannes Pétursson
Mrs. Emma von Renesse
Svani Sigfússon
S. A. Sigurðson
Bjarni Sigvaldason
Björn I. Sigvaldason
Guðni Sigvaldason
V. Sigvaldason
Guðjón Stefánsson
Páll Stefánsson
Sigurður Stefánsson
Sveinn Sveinsson
Gunnar Sæmundsson
Jóhann Sæmundsson
Þóra Vigfússon
Sigurður Vopnfjörð

**"Ísland"**

**Brown, Man.**

Óli Björnsson
J. J. Gillis
Ragnar Gillis
Andy Gíslason
J. M. Gíslason
Lárus Gíslason
Th. J. Gíslason
Mrs. Th. J. Gíslason
Leonard Helgason
Jóhannes H. Húnfjörð
J. J. Húnfjörð
Halldór Johnson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Sæunn Kristjánsson
Óli Lindal
Mrs. J. F. Gíslason
Í. M. Ólafsson
Sigurður Ólafsson
W. Ólafsson
Mrs. Paulina Sigurðsson
Miss Petrína Sigurðsson
Jónatan Thomasson
Thomas Thomasson
Valdimar S. Thorláksson

**"Iðunn"**

**Leslie, Sask.**

Mrs. Stefán Anderson
Helgi Árnason
Jón Árnason
Rósmundur Árnason
Vigfús Árnason
Björn Axfjörð
Bergþór Björnsson
Skúli Björnsson
Bjarni Davíðsson
Kristján Erlendson
Andrés Eyjólfson
Gabríel Gabríelsson
Jón Guðmundson
Páll Guðmundsson
Þorsteinn Guðmundsson
Mrs. T. Halldórsson
Jón Hallson
Stefán Helgason
Mrs. Jón Janusson
Jón Jóhannesson
Jón Jóhannsson
Páll Magnússon
Jón Magnússon
N. A. Narfason

Fred Nordal
S. G. Nordal
Ellert Ólafsson
Jón Ólafsson
Stefán Ólafsson
Valdimar Pálsson
Mrs. Anna Sigbjörnsson
Sigbjörn Sigbjörnsson
Jóhann Sigbjörnsson
Grímur Sigurðsson
H. G. Sigurðsson
G. Stefánsson
Guðmundur Stefánsson
H. Thorsteinsson

"Frón"

Winnipeg, Man.

Stefán Abrahamsson
Mrs. S. Árnason
Jochum Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Dr. Kristján Austman
Mrs. Kr. Austman
Dr. Kristján Backman
Mrs. Kristján Backman
Mrs. Salome Backman
Gunnar Baldvinsson
Arinbjörn S. Bardal
Mrs. Nanna Bauer
Jóhann Beck
Mrs. Vigfúsína Beck
S. Benjamínsson
Rafnkell Bergson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
J. J. Bíldfell
Guðm. M. Bjarnason
H. Bjarnason
Mrs. Ingibj. Bjarnason
Ólafur Bjarnason
P. K. Bjarnason
Sigurður Bjarnason
Andrés J. Björnsson
Davíð Björnsson
Ívar Björnsson
Mrs. Lárus Björnsson
Mrs. A. I. Blöndal
Magnús Brandson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Ingibjörg Butler
Mrs. Anna Cameron
Miss Friðmunde Christie
Sigurjón Christopherson
Hjálmur Daníelsson
Mrs. Hólmfr. Daníelsson
Mrs. Ragnh. Davíðsson
Mrs. S. W. Edinger
Árni Eggertson
Árni G. Eggertson
Mrs. Guðlaug Eggertson
Jón Einarsson
Stefán Einarsson
Guðm. Eiríksson
Mrs. Guðm. Eiríksson
Sigurður Einarsson
Mrs. Jóhanna Ellis
Leifur Ellison
Gunnar Erlendson
Mrs. Kr. Erlendson
Miss V. Eyjólfsson
Guðm. E. Eyford
G. Finnbogason
Mrs. St. Finnbogason
Bjarni Finnson
Mrs. G. Gillies
Mrs. A. Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Mrs. Sveinbj. Gíslason
Mrs. G. Goodman
Mrs. Jóna Goodman
Mrs. Sesselja Gottskálkson
Ásgeir Guðjohnsen
Gunnar Guðmundsson
Jón G. Gunnarsson
Mrs. Guðr. Gunnlaugsson
Miss Elín Hall
Miss Anna Halldórsson
Mrs. Anna Halldórsson
Halldór Halldórsson
Siggi Halldórsson
Mrs. Ásta Hallson
Páll Hallson
Kristján Hannesson

Karl Hanson
Stefán Hanson
Thorleifur Hanson
Einar Haralds
Mrs. Oddný Helgason
Mrs. Jóhanna Hólm
Mrs. Guðm. Ingjaldsson
Miss Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Á. P. Jóhannsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Gunnlaugur Jóhannsson
Mrs. Guðr. Jóhannsson
Grettir L. Jóhannsson
K. W. Jóhannson
Stefán Jóhannsson
Mrs. J. Jóhannesson
Alex. Johnson
Mrs. Alex. Johnson
Miss Anna Johnson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Björg Johnson
Einar P. Jónsson
Mrs. Einar P. Jónsson
Gísli Jónsson
Mrs. Guðrún Johnson
Mrs. Helga Johnson
Mrs. Henrietta Johnson
Helgi Johnson
K. H. Johnson
Magnús Johnson
Oddfríður Johnson
Miss Sigrún Johnson
Símon Johnson
Þorl. Johnson
Þórdís Johnson
Karl Jónasson
Snorri Jónasson
Mrs. Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Mrs. Jón Jónatansson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðg. Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
S. B. Kristjánsson
H. V. Lárusson
Guðmann Levy
Mrs. Margrét Levy
Hannes J. Lindal
Mrs. Hannes J. Lindal
Lýður S. Lindal
Mrs. Una Th. Lindal
Mrs. Svava S. Lindal
W. J. Lindal, K.C.
Mrs. J. McAfee
Agnar Magnússon
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Guðmundur Magnússon
Jóhann Magnússon
Jón Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Magnús Magnússon
Magnús E. Magnússon
Ólafur Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Mrs. Helgi Marteinsson
Mrs. Ingunn Marteinsson
Loftur Matthews
Mrs. Guðr. Mýrman
Mrs. S. Nordal
Mrs. Sigurður Oddleifsson
Mrs. Ásta Oddson
Miss K. Oddson
Mrs. Sesselja Oddson
Valgerður Oddson
Mrs. Anna Ólafsson
Mrs. Áslaug Ólafsson
Jón Ólafsson
Mrs. Th. Ólafsson
Tryggvi J. Oleson
Mrs. Vilborg Oliver
A. B. Olson
N. Otteson
Sveinn Pálmason
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
Miss Margrét Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Sigfús Pálsson
Mrs. A. Paulson
Hannes Petursson
Jóh. K. Petursson
Mrs. Jóhanna Pétursson

Ólafur Petursson
Sr. Philip Petursson
Mrs. Hólmfr. Petursson
Miss Margrét Petursson
Ólafur Petursson
Pétur Jónas Petursson
Thorv. Petursson
Ragnar H. Ragnar
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóhann Sigmundsson
Mrs. Bárður Sigurðsson
Eiríkur H. Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Miss Guðbj. Sigurðsson
Guðm. Sigurðsson
Mrs. Guðrún Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Kristján Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Mrs. Sigurþór Sigurðsson
Hreiðar Skaftfeld
Magnús Skaftfeld
Dr. A. N. Sommerville
Björn Stefánsson
Guðm. A. Stefánsson
Gunnbjörn Stefánsson
Ingi Stefánsson
Ragnar A. Stefánsson
Mrs. Rannveig K. Stefánsson
Guðm. Strandberg
Eyjólfur Sveinsson
Hans Sveinsson
Mrs. Hans Sveinsson
Mrs. Ovida Sveinsson
J. J. Swanson
Mrs. S. Sölvason
Einar Thompson
Miss Solveig Thompson
Eiríkur Thorbergsson
Guðm. Thordarson
Mrs. Thorg. Thordarson
Páll Thorgrímsson
Fred Thorkelsson
Soffonías Thorkelsson
Mrs. Jóhanna Thorkelsson
Sigurjón Thorkelsson
Carl Thorláksson
Mrs. Hlaðg. L. Thorláksson
Mrs. Inga Thorláksson
Dr. P. H. Thorlakson
J. B. Thorleifsson
Bjarni Thorsteinsson
Mrs. Guðr. Thorsteinsson
Mrs. S. Thorsteinsson
Mrs. Þ. Þ. Þorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Vigfús Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
Jónas Thorvardarson
Mrs. S. Vigfússon
J. J. Vopni

**"Ísafold"**

**Riverton, Man.**

Heiðursfélagi:
Guttormur J. Guttormsson

Félagar:
Eysteinn Árnason
Mrs. Anna Árnason
Mrs. Helga Árnason
F. V. Benedictson
Mrs. Kristín S. Benedictson
Árni Brandson
Gísli Einarsson
Magnús Einarsson
Miss Svava Einarsson
Marino Elíasson
Mrs. Laura Eyjólfsson
Mrs. E. T. Frederickson
Miss Lillie Eyjólfson
Mrs. Sigrún Gíslason
Mrs. G. J. Guttormsson
Thorleifur Hallgrímsson
Magnús E. Johnson
Ingólfur Jóhannson
Ólafur Jónasson
Jón Jónsson
Miss Anna Lárusson
Séra Eyjólfur J. Melan
Mrs. Ólavía Melan
Gestur Pálsson
Leifur Pálsson
Friðfinnur Sigurðsson
F. P. Sigurðsson
Gísli Sigmundson
G. Sigurðson
Mrs. G. Sigurðson
Kristján Sigurðsson
Mrs. Indiana Sigurðson
Jón Sigvaldason

Mrs. Margrét Thorbergson
Sv. Thorvaldson, M.B.E.
Mrs. Kristín Thorvaldson
Sveinþór Thorvaldson
Gestur S. Vidal.
Börn og unglingar:
Katrín Árnason
Maria Baldvinsson
Evelyn Eyjólfson
A. G. Iris Fredrickson
F. V. Fredrickson
Jónas Melan
John Jóhannesson
Kristján Jóhannesson
Elma Johnson
Lawrence Johnson
Guðrún Johnson
Elín Sigurðsson
Helgi Sigurðsson
Irene Thorvaldson
Violet Thorvaldson

"Snæfell"

Churchbridge, Sask.

Magnús Bjarnason
séra S. S. Christopherson
Konráð Eyjólfsson
Jóhannes Einarson
Jón Gíslason
Mrs. Gróa Gunnarson
Ólafur Gunnarson
G. F. Gíslason
Mrs. Kristín Hinrikson
Eyjólfur Hinrikson
Björn Hinrikson
G. C. Helgason
Kristján Johnson
G. J. Markússon
Harry Marvin
Kristín Oddson
Thorleifur Péturson
Einar Sigurðson

"Brúin"

Selkirk, Man.

Jón Anderson
Bjarni Árnason
Mrs. Thora Austman
Miss Dóra Benson
Kristján Bessason
Þórður Bjarnason
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Mrs. Ásta Eiríksson
Mrs. Guðrún Finnson
Guðjón Friðriksson
Björn Gilbertson
Mrs. Br. Guðbrandson
Kristinn Goodman
Páll Goodman
Mrs. Sigríður Goodman
Mrs. Ingveldur J. Henry
E. J. Hinriksson
Magnús Hjörleifsson
Sigurður Indriðason
Jón Ingjaldson
Mrs. Guðrún Ísfeld
Miss Halld. Jóhannesson
Olgeir Jóhannesson
Gestur Jóhannsson
Ingi C. Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
Mrs. G. M. Johnson
Hinrik Johnson
Mrs. Sigurbjörg Johnson
Mrs. Vigdís Johnson
Klemens Jónasson
Tryggvi Jónasson
Einar Magnússon
Mrs. Emma Magnússon
Páll Magnússon
Mrs. Rakel Maxon
Mrs. Ingibjörg Oddson
Jón Ólafsson
Mrs. Kristín Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Séra Sigurður Ólafsson
Mrs. Thora Oliver
Kristján Pálsson
Jóhann Pétursson
Árni Sigurðson
Jón Sigurðson
Sveinn Skaftfeld
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Jón Skárdal
Mrs. Guðrún Stefánsson
Mrs. S. G. Stefánsson

# VÉR BORGUM REIKNINGANA

## þegar þér hættið starfi



Þér skuluð ákveða nú á hvaða aldri þér ætlið að hætta að vinna, hvert það er þegar þér eruð 55, 60 eða 65. Tiltakið upphæðina, sem þér þurfið að hafa á þeim aldri til þess að geta notið lífsins. Semjið svo við Great-West Life að senda yður mánaðarlega peningaávísun fyrir þeirri upphæð. Meirihluti manna hefir engar tekjur um sextugs aldur. En þér getið verið sjálfstæður. Þér getið sett yður niður og tekið lífinu rólega, ef þér tryggið framtíð yðar með Great-West Life eftirlauna greiðslu.

Þetta fyrirkomulag veitir yður hærri inntektir á ári hverju fyrir minni peninga, en nokkurt annað sparisjóðs fyrirkomulag. Það tryggir yður fastar árstekjur eins lengi og þér lifið. En í því falli að dauða yðar beri að höndum, áður en ársborganirnar byrja, þá fá erfingjar yðar, greitt í peningum, það sem þér hafið þegar lagt fyrir. Giftir menn geta gert þessa ráðstöfun sameiginlega fyrir sig og konu sína, svo að hvort þeirra sem lengur lifir fái þessar tekjur áfram.

•

BJARNI DALMAN

*Umboðsmaður*

SELKIRK, MANITOBA

THE GREAT-WEST LIFE
ASSURANCE COMPANY
HEAD OFFICE --- WINNIPEG

S. J. Stefánsson
Ágúst Sæmundson
Oddur Sveinsson
Mrs. Ingibjörg Thordarson
Theodór Thordarson
Mrs. Björg Thorsteinsson
Th. S. Thorsteinsson
W. P. Thorsteinsson
Walter Walterson, Sr.
Jón Vogen

**"Fjallkonan"**

**Wynyard, Sask.**

S. S. Anderson
B. Arngrímsson
Jón Arngrímsson
Þórður Ásgeirsson
H. J. Austfjörð
Hallgrímur Axdal
Mrs. Jóna Axdal
H. J. Bardal
Thórhallur Bárdal
Gísli Benediktsson
Steini Bergman
B. Bjarnason
Mrs. Guðrún E. Björnsson
Sigga Björnson
Guðmundur Egilsson
Kristinn Eyjólfsson
Jens Elíasson
Th. Gauti
Mrs. Th. Gauti
Gísli Gillis
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Valdimar Gíslason
Mrs. G. Goodman
Sigtryggur Goodman
G. O. Gunnarson
C. H. Grímsson
Gísli Guðjónsson
A. Guðmundsson
G. F. Guðmundsson
Finnbogi Guðmundsson
Steinþór Gunnlaugsson
Ástvaldur S. Hall
Mrs. Andrés Helgason
Hosias Hosiasson
Magnús Ingimarsson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Barney Johnson
Finnbogi Johnson
Sigurður Johnson
Valdi Johnson
Axel Jónasson
Kristján Jónasson
Magnús Jónasson
Mrs. Albína Jóelsson
Ingi Magnússon
Fríða Pálsson
M. J. Skagfell
Ólafur Stefánsson
Fred Thorfinnsson

**The Junior Icelandic League**
**1941 Membership**

Mrs. Einar Árnason
Miss Helga Árnason
Miss Anna Anderson
Mrs. Ena Anderson
Miss Nína Anderson
Jochum Ásgeirsson
Mrs. J. Ásgeirsson
Geo. Ásgeirsson
Miss Edna Ásgeirsson
E. Baldwinson
Miss Olga Benson
Miss Lily Bergson
Gísli Borgford
Miss Lara Borgford
A. G. Bardal
Mrs. A. G. Bardal
Miss Emily Bardal

Miss Sybil Benjaminson
Miss Inga Benjaminson
Johann Bjarnason
Miss Sigurlaug Breckman
Mrs. E. Couch
Paul Clemens
Mrs. P. Clemens
Hjalmur Danielson
Mrs. H. Danielson
Baldur Danielson
Arni G. Eggertson
Mrs. A. G. Eggertson
Miss Helga Eggertson
Miss Elín Eggertson
Miss Guðrún Eggertson
Miss Margaret Einarson
Miss Stefania Eydal
Gunnar Erlendson
Miss Kay Ellice
Miss Thelma Erickson
Gissur Elíasson
Thos. Finnbogason
B. Freymóðson
Miss Dora Goodman
Miss Jona Goodman
Miss Doris Goodman
Miss Ruth Goodman
Miss Caroline Gunnarson
Sigfus Gillis
Miss Kay Gauti
Th. Guðmundson
Mrs. Th. Guðmundson
Miss Mattie Halldorson
Miss Emily Halderson
Miss Helen Halldorson
Hugh. L. Hanneson
Mrs. Hugh L. Hanneson
F. L. Hanson
Mrs. F. L. Hanson
Miss Margret Hjaltason
G. L. Johannson
Mrs. G. L. Johannson
Harold Johnson
Miss Anna Johnson
Miss Steina Johnson
Miss Loa Jonasson
Jonas Jonasson
Steindór Jakobson
Mrs. S. Jakobson
S. Jakobson, Jr.
G. F. Jonasson
Mrs. G. F. Jonasson
W. Johannson
Mrs. W. Johannson
Grímur Johannesson
Mrs. G. Johannesson
H. J. Lindal
Mrs. H. J. Lindal
Miss Violet Lindal
Miss María Markan
Miss Jórunn Magnússon
Dr. F. Olafson
Mrs. F. Olafson
Rev. P. M. Petursson
Miss Margret Petursson
Thor Petursson
O. Bjorn Petursson
Mrs. O. B. Petursson
Miss Elsie Petursson

Petur B. Petursson
Siggi Petursson
Miss Edith Peterson
Mrs. J. H. W. Price
Miss Grace Reykdal
Miss Hazel Reykdal
Arthur Reykdal
Dr. L. A. Sigurdson
Mrs. L. A. Sigurdson
Mrs. Lára B. Sigurdson
Sig. Sigmundson
Mrs. S. Sigmundson
Miss Olive Sigmundson
Joe Sigurdson
Mrs. L. G. Salverson
Miss Caroline Solvason
Halldor Swan
Sig. T. Sigurdson
Mrs. S. T. Sigurdson
Miss Anna Skaptason
Miss Ethel Sveinson
Miss Lily Solmundson
Thor. Sigurdson
Freeman Skaptason
Dr. E. Steinþórsson
Mrs. E. Steinþórsson
Edwin Stephenson
Miss Laura Thordarson
Örn Thorsteinson
Gunnar Thorlakson
Mrs. D. Thorsteinson
Jonas Thorsteinson
Thorsteinn Thorsteinsson
Sveinbjörn Thorsteinson
Miss Halld. Thorsteinson
Miss Ragnh. Thorsteinson
Paul Thorkelson
Mrs. P. Thorkelson
John Thordarson
Mrs. J. Thordarson
Stanley Tallman
Mrs. S. Tallman
G. S. Thorvaldson
Harold Vidal

The Executive:

Pres., O. B. Petursson

Vice-Pres.,
Arni G. Eggertson, K.C.

Sec., Grace Reykdal

Treas., Mattie Halldorson

Members-at-large:
H. Danielson
G. Ásgeirsson
S. Sigmundson

Sports Convener:
Thor Finnbogason

Social Conveners:
Mrs. E. Árnason
Helen Halldorson.

**Sambandsdeildin "Vísir"**

**Chicago, Ill.**

Mr. & Mrs. Egill Anderson
Mr. & Mrs. Oliver R. Alfred
Mr. & Mrs. Sigurður Arnason
Mrs. Steina Bergman
J. S. Bjornson
Miss Aurora Bjornson
Mr. & Mrs. Paul Bjornson












Mr. & Mrs. S. K. Bjornson
Miss Viola Barnes
Mrs. Ragna Barnes
Egill Erlendson
Mr. & Mrs. Walter Frisk
Mr. & Mrs. Ray Gislason
Guðmundur Guðlaugson
Mr. & Mrs. Skafti Guðmundson
Mr. & Mrs. Jacob C. Guðmundson
Mr. & Mrs. Jóh. Goodman
Mrs. Sigrún Hanneson
Miss Ellen Hanneson
Miss Sofia Halldorson
Mr. & Mrs. Paul Halldorson
Mr. & Mrs. Elmer Halldorson
Mr. & Mrs. Árni Helgason
Dr. & Mrs. Sveinbjorn Johnson
Edward Lundal
Miss Virginia Osborne
Mr. & Mrs. William G. Paul
Mr. & Mrs. Joseph Samson
Mr. & Mrs. J. Storm
Mr. & Mrs. Allan T. Sveinson
Mr. & Mrs. Norman T. Sveinson
Mrs. Sigrid Strodtz
Paul Reykjalín
Mr. & Hrs. Haldor H. Reykjalín
Mr. & Mrs. Wm. H. Taylor
Eric Vigfusson
Kjartan Vigfússon

**Sambandsdeildin "Harpa"**

**Bellingham, Wash.**

Mrs. Lukka Ásmundsson
Mrs. Jessie Westford
Mrs. Christine Oddson
Mrs. Christine Swanson
Mrs. Margaret Thompson
Mrs. Lena Willoughby
Mrs. Carrie Norsted
Mrs. Ena Reykdal
Mrs. Dora Thorsteinsson
Mrs. Freya Bourne
Mrs. Ione Jones
Mrs. Margaret Bullock
Mrs. Jennie Sophusson
Mrs. Sophie Farnum
Miss Irene Jones
Miss Christine Johnson
Miss Rose Goodman
Mr. Steinthor Hjartarson
Mr. Sigurður Reykdal
Mr. Thorst. Thorsteinsson
Mr. Walter Vopnfjörð
Mr. Stefán Johnson
Mr. Einar M. Einarsson
Mr. Hjörtur Hjartarson
Mr. Helgi S. Helgason

**Dánarskrá 1941**

J. K. Einarsson,
Cavalier, N. Dak.
Geirmundur B. Olgeirson,
Edinburg, N. Dak.
Mrs. Anna H. Björnsson,
Edinburg, N. Dak.
Jón Kernested,
Winnipeg Beach, Man.
Finnbogi Finnbogason,
Árborg, Man.
Mrs. Kristín Sigurðsson,
Red Deer, Alta.
Jónas Jónasson,
Winnipeg, Man.
Mrs. Dorothea Pétursson,
Winnipeg, Man.
Mrs. Maria Baldvinsson,
Lundar, Man.
Jónas Jónasson,
Reykjavík, Ísland
Guðmundur Jónsson,
Siglunes, Man.
Mrs. H. S. Freeman,
Poulsbo, Wash.
J. J. Henry,
Petersfield, Man.
Sigurjón Eiríksson,
Winnipeg, Man.
Ólafur Hall,
Wynyard, Sask.
Joseph Gillis,
Wynyard, Sask.
Kristján Kristjánsson,
Churchbridge, Sask.

